# Almanak

fyrir árið

# 1906

sem er annað ár eftir hlaupár og hefir sumarauka.
Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba.

---

Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira.

---

TÓLFTA ÁR.

---

WINNIPEG.
ÚTGEFANDI OG PRENTARI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.
1905.

## Á þessu ári teljast liðin vera:

| | | |
|---|---|---|
| frá Krists fæðing | 1906 | ár |
| frá sköpun veraldar | 5873 | ár |
| frá upphafi Íslandsbygðar | 1032 | ár |
| frá siðabót Lúters | 389 | ár |

Árið 1906 er sunnudagsbókstafur: G.
Gyllinital: 7.

### Myrkvar árið 1906:

Á árinu 1906 verða 5 myrkvar, 3 á sólu og 2 á tungli. 1. Tunglmyrkvi 8.—9. febrúar, sýnilegur í Norður-Ameríku. 2. Sólmyrkvi 22. febrúar, ekki sýnilegur hér. 3. Sólmyrkvi 21. júlí, ósýnilegur. 4. Tunglmyrkvi 4. ágúst sýnilegur í vesturhluta Norður-Ameríku, norðarlega í Alaska og Asíu. 5. Sólmyrkvi 19. ágúst, ekki sýnilegur.

### Pláneturnar.

Venus er morgunstjarna til 14. febrúar, kveldstjarna til 29. nóvember og eftir það morgunstjarna til ársloka.

Marz er kveldstjarna til 15. júlí, eftir það morgunstjarna.

Júpíter er kveldstjarna til 10. júní, morgunstjarna til 28. desember.

Satúrnus er kveldstjarna til 24. febrúar, morgunstjarna til 19. september, síðan kveldstjarna.

## Tunglið.

Fylgistjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður; er það tímabil alment talið 28 dagar, en er í raun réttri 27 dagar og 8 klukkustundir, eða rétt um það bil.

## Um tímatalið.

Forn-Egiptar skiftu degi og nóttu í 12 kl.- stundir hvoru.—og hafa Gyðingar og Grikkir ef til vill lært þá venju af Babýlóníu-mönnum. Það er sagt, að deginum

hafi fyrst verið skift í klukkustundir árið 293 f. Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-musterinu í Róm. Þangað til vatnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.) voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm til að segja borgarbúum, hvað tímanum liði. Á Englandi voru vaxkertis-ljós höfð fyrst frameftir, til að segja mönnum, hvað tímanum liði. Var áætlað, að á hverri klukkustund eyddust 3 þumlungar af kertinu. Hin fyrsta stundaklukka (tímamælir—sigurverk) í líkingu við þær, sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyrr en árið 1250. Fornmenn á Norðurlöndum töldu flestir, að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri, og Rómverjar, eins og vér, á miðnætti.

## Páskadagur

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1907 | 31. Marz | 1914 | 12. Apríl |
| 1908 | 19. Apríl | 1915 | 4. Apríl |
| 1909 | 11. Marz | 1916 | 23. Apríl |
| 1910 | 27. Marz | 1817 | 8. Apríl |
| 1911 | 16. Apríl | 1918 | 31. Marz |
| 1912 | 7. Apríl | 1919 | 20. Apríl |
| 1913 | 23. Marz | 1920 | 4. Apríl |

## Sóltími.

Sólhringur er sú tímalengd er líður á milli þess, er sólin gengar yfir ákveðna hádegislínu, og er það hin eðlilegasta skifting tímans. En sökum hinnar mismunandi hreyfingar jarðarinnar umhverfis sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni(Ecliptic),er aldrei nákvæmlega jafn-langur tími milli þess,er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leiðir, að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að önnur sól sé til, og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínunni. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stundum á eftir hinni einu virkilegu sól. Er sá mismurur mestur 16 mínútur. Réttur sóltími er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo

kallaði ,,meðal sóltími'' aftur á móti, er miðaður við hina ímynduðu sól. Til skýringar má geta þess, að það er að eins á tveimur dögum á árinu — á jafndægrum haust og vor — að ,,meðal sóltíma'' og réttum sóltíma ber saman, því á þeim tveim dögum að eins er buglínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni.

---

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8. öld. Af Norðmönnum 860.

Fyrst varanleg bygð hefst 874.

Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af, 894.

Fyrstu lög og alþing sett 930.

Fyrstur trúboði, Friðrik biskup, saxneskur, 981.

Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.

Fyrsta kirkja er í ritum talin bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gissursson, 1054.

Fyrstur fastur skóli á Hólum 1552.

Fyrstur íslenzkur rithöfundur, kunnur, og faðir íslenzkrar sagnritunar, Ari Þorgilsson, prestur, f. 1067, d. 1148.

Fyrsta Heklu-gos, er sögur fara af, 1104.

Fyrsta klaustur, reist á Þingeyrum, 1133.

Fyrsta nunnuklaustur í Kirkjubæ í Vestur-Skaftafellssýslu 1186.

Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna-) 1262—63.

Svarti Dauði geisaði 1402.

Seinni plágan 1495.

Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólsstað í Vesturhópi um 1530.

Fyrstur prentari Jón Matthíasson, sænskur prestur.

Fyrstur lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.

Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, 1540.

Fyrstur fastur látínuskóli í Skálholti 1552.
Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.
Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi biskupi, 1584,
Spítali stofnaður fyrir holdsveikt fólk 1652.
Fyrsta galdrabrenua 1625 (hin síðasta 1690).
Prentsmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hófum aftur 1703.
Stórabóla geysaði 1707.
Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.
Fyrst drukkið brennvín á Íslandi á 17. öld
Fyrst fluttur fjárkláði til Íslands 1760.
Fyrst drukkið kaffi 1772.
Fyrsta lyfjabúð á Nesi við Seltjörn 1772.
Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.
Hið íslenzka lærdómslistafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1779.
Ákveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálholti til Reykjavíkur 1785.
Verzlunareinokunin konunglega afnumin 1787.
Seinasta lögjafarþing haldið á Þingvöllum við Öxará 1768.
Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.
Landsyfirréttur settur á laggirnir í Rvík 1800.
Fyrsta organ, sett í Leirárkirkju, 1800.
Landið gjört að biskupsumdæmi 1801.
Hólaskóli fluttur til Reykjavíkur 1801.
Haldinn fyrsti yfirréttur í Reykjavík 1801.
Latínuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 1805.
Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.
Hið íslenzka bókmentafélag stofnað 1816.
Fyrsti vísir til fréttablaða, Klausturpósturinn kemur út 1818. (Minnisverð tíðindi ekki talin; þau komu út 1796—1808.
Prentsmiðjan flutt frá Leirárg. til Viðeyjar 1819.
Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.
Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.
Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Rvíkur 1844.
Fyrsta alþingi í Reykjavík 1845.
Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846..
Prestaskólinn settur í Reykjavík 1847.
Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848.
Fyrsta blað Þjóðólfs prentað 1848
Hrossa-sala til útlanda byrjar um 1850.
Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.
Fyrsta póst-gufuskip kom til Reykjavíkur 1858.
Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.
Forngripasafnið sett á stofn í Reykjavík 1863.
Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.
Þjóðvinafélagið stofnað 1870.
Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871.

---

## Ártöl nokkurra merkisviðburða.

| | |
|---|---|
| Fall Trjóuborgar . . . . . . . . . . . . . . . . | 1182 |
| Stofnun Kartagóborgar . . . . . . . . . . . . . | 878 |
| Stofnun Rómaborgar . . . . . . . . . . . . . . | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nebúkadnesar . . . . . . | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands . . . . . . . . . . | 55 |
| | Eftir Kr. |
| Jerúsalem eyðilögð af Títusi . . . . . . . . . . . | 70 |
| Constantínus keisari snýst til kristni . . . . . . . | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland . . . . . . . . . . . | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bard. við Hastings | 1066 |
| Krossferðirnar byrja . . . . . . . . . . . . . . . | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð . . . . . . . . . . . . . . | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz . . . . . . . . . . . | 1462 |
| Columbus fann Ameríku . . . . . . . . . . . . . | 1492 |
| England og Skotland sameinast . . . . . . . . . | 1602 |
| Þrjátíu ára stríðið byrjar . . . . . . . . . . . . | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar . . . . . . . . . . . . . . | 1704 |
| Friðarsamningarnir í Utrecht. . . . . . . . . . . | 1713 |
| Canada tekin af Frökkum . . . . . . . . . . . . . | 1759 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi . . . . . . . . . . . | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum . . . . . . . . | 1779 |

| | |
|---|---|
| Fyrsta nýlenda stofns. í Ástralíu | 1788 |
| Napóleon Bónaparte verður keisari | 1804 |
| Bardaginn við Trafalgar. Fall Nelson's | 1805 |
| Franski leiðangurinn til Moskva | 1812 |
| Bardaginn við Waterloo | 1815 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlantshaf | 1819 |
| Gullið fundið í Californíu | 1848 |
| Gullið fundið í Ástralíu | 1851 |
| Fyrsta alheimssýning í London | 1851 |
| Dominion of Canada stofnuð | 1867 |

## Stærð úthafanna.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Norður-Íshafið | er um | 4,781,000 | ferh. míl. | flatarmál |
| Suður-Íshafið | " | 30,592,000 | " | " |
| Indlandshafið | " | 17,084,002 | " | " |
| Atlantshafið | " | 24,536,000 | " | " |
| Kyrrahafið | " | 50,309,000 | " | " |

## Lengstur dagur

| | kl. tímar | mín. |
|---|---|---|
| Reykjavík | 20 | 56 |
| Pétursborg (Rússlandi) | 18 | 38 |
| Stokkhólmi (Svíþjóð) | 18 | 35 |
| Edinburgh (Skotlandi) | 17 | 32 |
| Kaupmannahöfn (Danmörku) | 17 | 20 |
| Dublin (Írlandi) | 16 | 52 |
| Berlin (Þýzkalandi) | 16 | 40 |
| London (Englandi) | 16 | 34 |
| París (Frakklandi) | 16 | 05 |
| Victoria (British Columbia) | 16 | 00 |
| Vínarborg (Austurríki) | 15 | 56 |
| Boston (Bandaríkjum) | 15 | 14 |
| Chicago " | 15 | 08 |
| Miklagarði (Tyrklandi) | 15 | 04 |
| Cape Town (Suður-Afríku) | 14 | 20 |
| Calcutta (Indlandi) | 13 | 24 |
| Panama | 12 | 34 |

# JANÚAR hefir 31 dag 1906.

MÖRSUGUR

**Umskurn Krists.** Lúk. 2.

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | Nýársdagur |
| Þ | 2 | ☾Fyrsta kv. 7.52 e. m. |
| M | 3 | |
| F | 4 | Konráð Gíslason d. 1891 |
| F | 5 | |
| L | 6 | Þrettándi (Epiphania) 12. v. vetrar |

**Þegar Jesús var tólf ára.** Lúk. 2.

| | | |
|---|---|---|
| S | 7 | 1. s. e þrett. — Knútsdagur. Eldbjargarmessa |
| M | 8 | Bardaginn við New Orleans 1815 |
| Þ | 9 | Napólen 3. d. 1876 |
| M | 10 | ☺ Fult tungl 9.37 e. m. |
| F | 11 | |
| F | 12 | Alfr. Tennyson f. 1810 |
| L | 13 | Geisladagur 13. vika vetrar |

**Brúðkaupið í Kana.** Jóh. 2.

| | | |
|---|---|---|
| S | 14 | 2. s. e. þrett. |
| M | 15 | Sandvíkureyjar fundnar 1778 |
| Þ | 16 | British Museum opnað 1759 |
| M | 17 | ☽Síð. kv. 1.45 e. m. —Benjamín Franklín f. 1706 |
| F | 18 | Bulwer Lytton, skáldið d. 1873—Webster f. 1782 |
| | | ÞORRI |
| F | 19 | Miður vetur |
| L | 20 | Bræðramessa 14. vika vetrar |

**Jesús gekk ofan af fjallinu.** Matt. 8.

| | | |
|---|---|---|
| S | 21 | 3. s. e. þrett.—Agnesarmessa |
| M | 22 | Victoria drottning d. 1901—Byron f. 1788 |
| Þ | 23 | Gustav Doré, málarinn mikli, d. 1882 |
| M | 24 | ●Nýtt t. 10.09e.m.(þorrat.)—Friðrik miklif. 1712 |
| F | 25 | Pálsmessa—Kirkjufélag Ísl. í V.heimi stofn. 1885 |
| F | 26 | |
| L | 27 | Mozart, tónfræðingur, f. 1757 15. vika vetrar |

**Jesús gekk á skip.** Matt. 8.

| | | |
|---|---|---|
| S | 28 | 4. s. e. þrett. — Holberg, danska skáldið, d. 1754 |
| M | 29 | McKinley, forseti f. 1843 |
| Þ | 30 | |
| M | 31 | Dr. Guðbrandur Vigfússon d. 1889 |

# FEBRÚAR hefir 28 daga 1906.

ÞORRI

| | | |
|---|---|---|
| F | 1 | ☾ Fyrsta kv. 5.31 e. m. |
| F | 2 | Kyndilmessa — Baldvin Einarsson, lögfr. f. 1802 |
| L | 3 | Blasíusmessa 16. vika vetrar |

**Illgresi meðal hveitisins.** Matt. 13.

| | | |
|---|---|---|
| S | 4 | 5. s e. þrett. |
| M | 5 | |
| Þ | 6 | Sir Henry Irving fæddur 1838 |
| M | 7 | Charles Dickens fæddur 1812 |
| F | 8 | Stríðið milli Rússa og Japansmanna byrjaði 1904 |
| F | 9 | ● F. t. 12.46 e. m. — Baldv. Einarss., lögfr. d. 1833 |
| L | 10 | Canada látin af hendi við Engl. 1763— 17. v. vetr. |

**Verkamenn í víngarði.** Matt. 20.

| | | |
|---|---|---|
| S | 11 | Níu vikna fasta—Thomas Edison f. 1847 |
| M | 12 | Lincoln fæddur 1809 |
| Þ | 13 | Richard Wagner, tónfræðingur d. 1883 |
| M | 14 | Lúters síðasta prédikan 1546 |
| F | 15 | ☽ Síð. kv. 9.23 e. m. |
| F | 16 | Melankton fæddur 1497 |
| L | 17 | Mich. Angelo d. 1563—Þorraþræll — 18. v. vetr. |

**Fernskónar sáðjörð.** Lúk, 8.

GÓA

| | | |
|---|---|---|
| S | 18 | 2. s. í níuviknaföstu |
| M | 19 | |
| Þ | 20 | |
| M | 21 | |
| F | 22 | Pétursmessa — George Washington f. 1732 |
| F | 23 | ☺ Nýtt t. 9.57 e. m. |
| L | 24 | Ingemann, danska skáldið d. 1862—19. v. vetrar |

**Skírn Krists.** Matt. 2.

| | | |
|---|---|---|
| S | 25 | Langafasta (sjöviknafasta) |
| M | 26 | |
| Þ | 27 | Sprengikvöld—Longfellow f. 1807 |
| M | 28 | Öskudagur |

# MARS hefir 31 dag 1906.

Góa

F 1
F 2 Fyrsta þing Bandaríkjanna sett 1781
L 3 ☾ Fyrsta kv. 2.28 f.m.—Jónsmessa(h.f.)— 20. v. v.

**Djöfullinn freistar Jesú.** Matt, 4.

S 4 1. s. í föstu
M 5
Þ 6 Sveinbjörn Egilsson f. 1791
M 7
F 8 Jón Thóroddsen d. 1868
F 9 40 riddarar—Merrimac og Monitor bardaginn 1862
L 10 ○ Fult t. 1.17 e. m. 21. v. vetrar

**Kanverska konan.** Matt. 15.

S 11 2. s. í föstu
M 12 Séra Páll Þorláksson d. 1882
Þ 13 Dr. Guðbrandur Vigfússon f. 1827
M 14 Sigurður Breiðfjörð f. 1778
F 15 Fyrsta þing Manitobafylkis sett 1871
F 16 Gvöndardagur (Guðmundur hinn góði Hólabisk.)
L 17 ☽ Síð. kv. 4.57 e. m. 22. v. vetrar

**Jesús rak út djöful.** Lúk. 11.

S 18 3. s. í föstu—Hinrik Ibsen f. 1828
M 19 Góuþræll—Davíð Livingstone f. 1813

Einmanuður

Þ 20
M 21 Benidiktsmessa—Jafndægur. Vor byrjar
F 22 Goethe d. 1832
F 23 Riels uppreistin í Vestur-Canada hófst 1885
L 24 ● Nýtt t. 4.52 e.m. (páskatungl) 23. v. vetrar

**Jesús mettar 5000 manna.** Jóh. 6.

S 25 Miðfasta
M 26 Beethoven, tónfræðingur d. 1827
Þ 27 John Bright, enski stjórnmálamaðurinn d. 1889
M 28
F 29 Swedenborg d. 1772—Jón Eiríksson, konferensráð
F 30 [d. 1787
L 31 Bjarni Thorarensen f. 1781 24. v. vetrar

## APRÍL hefir 30 daga 1906

EINMANUÐUR

**Gabríel engill sendur.** Lúk. 1.

| | | |
|---|---|---|
| S | 1 | 5. s. í föstu — ☾ Fyrsta kv. 9.02 e. m. |
| M | 2 | Emil Zola f. 1840 |
| Þ | 3 | Washington Irving f. 1783 |
| M | 4 | Oliver Goldsmith d. 1774 |
| F | 5 | |
| F | 6 | Canada fundin 1497 |
| L | 7 | Channing f. 1780 — 25. v. vetrar |

**Krists innreið í Jerúsalem.** Matt. 21.

| | | |
|---|---|---|
| S | 8 | Pálmasunnud.—Dymilvika—☺ Fult t. 11.12 e.m. |
| M | 9 | |
| Þ | 10 | |
| M | 11 | Leónisdagur |
| F | 12 | Skírdagur — Henry Clay f. 1777 |
| F | 13 | Föstudagurinn langi — Thomas Jefferson f. 1743 |
| L | 14 | Lincoln skotinn 1865—Sumarmál (af 26.v.vetrar) |

**Krists upprisa.** Mark. 16.

| | | |
|---|---|---|
| S | 15 | Páskadagur — ☽ Síð. kv. 1.36 f. m. |
| M | 16 | Annar í páskum — Magnúsmessa Eyjajarls (h.f.) |
| Þ | 17 | |
| M | 18 | |
| | | HARPA |
| F | 19 | Melankton d. 1560 — Sumard. fyrsti. 1. v. sum. |
| F | 20 | |
| L | 21 | Jón Hjaltalín, landlæknir f. 1807 |

**Jesús kom að læstum dyrum.** Jóh. 20.

| | | |
|---|---|---|
| S | 22 | 1. s. e. páska |
| M | 23 | ● Nýtt t. 9.06 f. m. (sumart.) —Jónsmessa (h.s.) |
| Þ | 24 | Dan. Defoe d. 1731 |
| M | 25 | Gangdagurinn eini (mikli) — Cromwell f. 1599 |
| F | 26 | Moltke, hershöfðinginn d. 1891 — 2. v. sumars |
| F | 27 | U. S. Grant, hershöfðinginn f. 1822 |
| L | 28 | |

**Jesús er góði hirðirinn.** Jóh. 10.

| | | |
|---|---|---|
| S | 29 | |
| M | 30 | |

# MAÍ hefir 31 dag 1906.

HARPA

| | | |
|---|---|---|
| Þ | 1 | ☽ Fyrsta kv. 12.7 e.m. — Tveggja postula messa |
| M | 2 | Dewey eyðileggur spánska flotann við Manilla 1898 |
| F | 3 | Krossmessa á vori 3. vika sumars |
| F | 4 | |
| L | 5 | Napóleon Bónaparte d. 1821 |

**Krists burtför til föðursins.** Jóh. 16.

| | | |
|---|---|---|
| S | 6 | 3. s. e. páska |
| M | 7 | |
| Þ | 8 | ○ Fult t. 7.10 e. m. —John Stewart Mill d. 1873 |
| M | 9 | Shiller d. 1805 |
| F | 10 | Eldaskildagi 4. vika sumars |
| F | 11 | Kóngsbænadagur |
| L | 12 | Bjarni Pálsson, fyrsti landlæknir, f. 1719 |

**Sending heilags anda.** Jóh. 16.

| | | |
|---|---|---|
| S | 13 | 4. s. e. páska—Stofnuð fyrsta ensk nýlendaí Ame- |
| M | 14 | [ríku 1601 |
| Þ | 15 | ☾ Síð. kv. 12.03 e. m.—Hallvarðsmessa — Petur |
| M | 16 | [bisk. Pétursson d. 1891 |
| F | 17 | Tómas Sæmundsson d. 1841 5. vika sumars |
| F | 18 | Rússakeisari f. 1868 |
| | | SKERPLA |
| L | 19 | Gladston d. 1898 |

**Biðjið í Jesú nafni.** Jóh. 16.

| | | |
|---|---|---|
| S | 20 | 5. s. e. páska—Gangdagavika—Columbus d. 1506 |
| M | 21 | |
| Þ | 22 | Sæmundur fróði d. 1133. |
| M | 23 | ● Nýtt t. 1.01 e.m. |
| F | 24 | Uppstigningard. — Victoria dr. f. 1819 — 6. v. s. |
| F | 25 | Úrbanusmessa |
| L | 26 | Jónas Hallgrímsson d. 1845 |

**Þegar huggarinn kemur.** Jóh. 15.

| | | |
|---|---|---|
| S | 27 | 6 s. e. páska—Calvin d. 1564 |
| M | 28 | |
| Þ | 29 | Gísli Brynjólfsson d. 1888 |
| M | 30 | ☽ Fyrsta kv. 11.24 e. m.—Egg. Ólafsson d. 1768 |
| F | 31 | Jón Guðmundsson, ritstjóri d. 1876—7. v. sumars |

# JÚNÍ hefir 30 daga 1906.

SKERPLA

F 1
L 2 Garibaldi d. 1882

**Sá, sem elskar mig.** Jóh. 14.

S 3 Hvítasunnudagur—Helgavika
M 4
Þ 5
M 6 ☺ Fult tungl 2.20 e. m.—Imbrudagar
F 7 Tómas Sæmundsson f. 1807 8. vika sumars
F 8 Jón Hjaltalín, landlæknir, d. 1882
L 9 Charles Dickens d. 1870

**Kristur og Nikódemus.** Jóh. 3.

S 10 Trínitatis—Þrenningarhátíð
M 11
Þ 12 W. C. Bryant d. 1878
M 13 ☽Síð. kv. 12.34 e. m.
F 14 Dýridagur—S. Melsted, lector, d. 1897—9. v. s.
F 15 John Englands kóngur undirskrifar Magna Carta
L 16 [1215

**Hinn auðugi maður.** Lúk. 16.

S 17 1. s. e. trín.—Jón Sigurðsson f. 1811
SÓLMANUDUR
M 18
Þ 19
M 20
F 21 ● Nýtt t. 4.06 e. m. 10. vika sumars
F 22 Sólstöður—lengstur dagur
L 23

**Hin mikla kvöldmáltíð.** Lúk. 14.

S 24 2. s. e. trín.—Jónsmessa—Kristni lögtekin á Ís-
M 25 Ágsborgarjátningin 1530 [landi 1000
Þ 26
M 27
F 28 Victoria drottning krýnd 1838— 11. vika sumars
F 29 ☾Fyrsta kv. 7.19 e.m.—Pétursmessa og Páls
L 30

SÓLMANUDUR

**Hinn týndi sauður.** Lúk. 15.

| | | |
|---|---|---|
| S | 1 | 3. s. e. trín.—Dominion dagur (1867) |
| M | 2 | Þingmaríumessa—Sviðhúnsmessa (h. f.) |
| Þ | 3 | Quebec-borg grundvölluð 1605 |
| M | 4 | Frelsisdagur Bandaríkjanna (1776) |
| F | 5 | ☺Fult t. 9.27 e.m. 12. vika sumars |
| F | 6 | |
| L | 7 | Jóhann Huss brendur 1415 |

**Verið miskunnsamir.** Lúk. 6.

| | | |
|---|---|---|
| S | 8 | 4. s. e. trín.—Seljumannamessa |
| M | 9 | |
| Þ | 10 | John Calvin f. 1509 |
| M | 11 | |
| F | 12 | 13. vika sumar |
| F | 13 | ☾Síð. kv. 3.13 e. m.—Margrétarmessa |
| L | 14 | Franska stjórnarbyltingin 1789 |

**Jesús kennir af skipi.** Lúk. 5.

| | | |
|---|---|---|
| S | 15 | 5. s. e. trín.—Sviðhúnsmessa (h.s.) |
| M | 16 | |
| Þ | 17 | |
| M | 18 | Aukanætur |
| F | 19 | Guðbrandur biskup d. 1627 14. vika sumars |
| F | 20 | Þorláksmessa á sumri |
| L | 21 | ● Nýtt t. 5.59 e. m. |

**Réttlæti faríseanna.** Matt. 5.

HEYANNIR

| | | |
|---|---|---|
| S | 22 | 6. s. e. trín.—Miðsumar |
| M | 23 | Hundadagar byrja |
| Þ | 24 | Canada fundin 1554 |
| M | 25 | Jakobsmessa |
| F | 26 | Franska stjórnarbyltingin 1830 15. vika sumars |
| F | 27 | Atlantshafs rítsíminn fullgerður 1866 |
| L | 28 | ☽ Fyrsta kv. 12.56 e. m. |

**Jesús mettar 4000 manna.** Mark. 8.

| | | |
|---|---|---|
| S | 29 | 7. s. e. trín.—Ólafsmessa (h. f.) |
| M | 30 | William Penn d. 1718 |
| Þ | 31 | Jon Ericson (sænski) f. 1803 |

# KONUR

Ef hver kona vissi hversu gott og nauðsynlegt er að brúka hið mýkjandi og græðandi meðal:

## 7 MONKS' SANOGEN

mundi veröldin vera hraustari og ánægðari en hún er. Þetta meðal er ágætt við hvítum klæðafölum og öllum kvensjúkdómum.



Kona skrifar:—,,Eg þjáðist af hvítum klæðaföllum og öklarnir bólgnuðu. Eg brúkaði "SANOGEN" og bætti það mér, og einnig ,,Ton-i-cure" og það gerði mig hrausta. Hvað mikið sem eg geng eða stend verð eg ekki vör þess að öklarnir bólgni. -Mrs. M

**7 MONKS' SANOGEN 50 cents.**

Selt við allar verzlanir og sent með pósti.

7 MONKS' COMPANY, Box 742, Winnipeg, Canada.

---




## ÁBURÐURINN SEM GRÆDIR

Ef þú þjáist af gylliniæð hverar tegnndar sem er, þá læknar hana.

## 7 MONKS' MIRACLE SALVE

Það læknar skurði, bruna, meðsl og gömul sár. Þetta nafnfræga meðal er vel þekt allsstaðar fyrir sín mýkjandi og græðandi ahrif

Verð 50c. Selt í öllum verzlunum, eða sent með posti við móttöku penninganna.

**7 Monks' Company,**
Box 742, Wiunipeg, Canada.

## ÁGUST hefir 31 dag 1906.

HEYANNIR

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | Bandadagur—Jón Espólín d. 1839 |
| F | 2 | Bened. Sveinsson, sýslum., d. 1899—16. vika su. |
| F | 3 | Ólafsmessa (h.s.) |
| L | 4 | ○ Fult t. 6.08 e.m.—H. C. Andersen d. 1875 |

Um falsspámenn. Matt. 6.

| | | |
|---|---|---|
| S | 5 | 8. s. e. trín.—Byrjað að leggja fyrsta Atlantshafs-[ritsímann 1858 |
| M | 6 | |
| Þ | 7 | |
| M | 8 | Canning d. 1827 |
| F | 9 | 17. vika sumars |
| F | 10 | Lafransmessa |
| L | 11 | ☾ Síð. kv. 7.47 e. m. |

Hinn rangláti ráðsmaður. Lúk. 16.

| | | |
|---|---|---|
| S | 12 | 9. s. e. trín. |
| M | 13 | Manilla-borg gafst upp 1898 |
| Þ | 14 | Napóleon 1. f. 1769 |
| M | 15 | Maríumessa (h. f)) |
| F | 16 | 18. vika sumars |
| F | 17 | Sveinbjörn Egilsson d. 1852 |
| L | 18 | Austurríkiskeisari f. 1830 |

Jesús grætur yfir Jerúsalem. Lúk, 19.

| | | |
|---|---|---|
| S | 19 | 10. s. e. trín. — ● Nýtt t. 6.27 e. m. |
| M | 20 | |
| | | TVÍMANUDUR |
| Þ | 21 | |
| M | 22 | |
| F | 23 | 19. vika sumars |
| F | 24 | Bjarni Thórarensen d. 1841 — Hundadagar enda |
| L | 25 | |

Faríseinn og tollheimtumaðurinn. Lúk. 18.

| | | |
|---|---|---|
| S | 26 | 11. s. e. trín.— ☽ Fyrsta kv. 5.42 e.m. |
| M | 27 | Agústín d. 430 |
| Þ | 28 | Leó Tolstoi f. 1828—Goethe f. 1749 |
| M | 29 | Höfuðdagur—Jóhannes skírari líflátinn |
| F | 30 | Jón biskup Vídalín d. 1720 — 20. vika sumars |
| F | 31 | John Bunyan d. 1688 |

# SEPTEMBER hefir 30 daga 1906.

| | | |
|---|---|---|
| | | TVÍMANUDUR |
| L | 1 | |
| | | **Daufi og málhalti maðurinn.** Matt. 7. |
| S | 2 | 12. s. e. trín. — ◯ Fult t. 2.36 e. m. |
| M | 3 | Verkamannadagurinn í Canada |
| Þ | 4 | Franska lýðveldið stofnað 1870 |
| M | 5 | |
| F | 6 | McKinley forseti skotinn í Buffalo 1901—21. v. s. |
| F | 7 | |
| L | 8 | Maríumessa (h. s.)—Jerúsalem hertekin 70. |
| | | **Hinn miskunnsami Samverji.** Lúk. 10. |
| S | 9 | 13. s. e. trín. |
| M | 10 | ☽ Síð. kv. 1.54 e. m. |
| Þ | 11 | |
| M | 12 | Bardaginn við Quebec og fall Wolfe hershöfðingja |
| F | 13 | Bretar taka Quebec 1759 — 22. vika sumars |
| F | 14 | Wellington, hershöfðinginn, d. 1852 |
| L | 15 | |
| | | **Tíu líkþráir.** Lúk. 17. |
| S | 16 | 14. s. e. trín.— Moscow-borg brend 1812 |
| M | 17 | |
| Þ | 18 | ● Nýtt t. 5.33 e.m.—Garfield d. 1881 |
| M | 19 | Imbrudagar (sæluvika) |
| | | HAUSTMANUDUR |
| F | 20 | 23. vika sumars |
| F | 21 | |
| L | 22 | Tyrkjasoldán f. 1842 |
| | | **Enginn kann tveimur herrum að þjóna.** Matt. 6. |
| S | 23 | 15. s. e. trín.—Jafndægur—haust byrjar |
| M | 24 | ☾ Fyrsta kv. 11.11 e. m. |
| Þ | 25 | Björn Gunnlaugsson f. 1788 |
| M | 26 | |
| F | 27 | 24. vika sumars |
| F | 28 | |
| L | 29 | Mikaelsmessa |
| | | **Sonur ekkjunnar í Nain.** Lúk. 7. |
| S | 30 | 16. s. e. trín. |

# OKTOBER hefir 31 dag 1906.

HAUSTMANUDUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| M | 1 | | |
| Þ | 2 | ☺ Fult t. 5.48 e.m. | |
| M | 3 | Petur biskup Pétursson f. 1787 | |
| F | 4 | | 25. vika sumars |
| F | 5 | | |
| L | 6 | Eldadagur—Tennyson d. 1892 | |

**Vatnsjúki maðurinn.** Lúk. 14.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 7 | 17. s. e. trín.—Edgar A. Poe d. 1849 | |
| M | 8 | | |
| Þ | 9 | Chicago bruninn mikli 1871 | |
| M | 10 | ☽ Síð. kv. 8.39 e. m. | |
| F | 11 | Búarnir sögðu Bretum stríð 1899— | 26. vika sum. |
| F | 12 | Columbus fann Ameríku 1492 | |
| L | 13 | | |

**Hvers son er Kristur?** Matt. 22.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 14 | 18. s. e. trín. | |
| M | 15 | Gregoríska tímatalið innleitt 1582 | |
| Þ | 16 | | |
| M | 17 | ● Nýtt t. 5.15 e. m. (vetrartungl) | |
| F | 18 | Lúkasmessa | 27. vika sumars |
| F | 19 | Jónatan Swift d. 1745 | |
| L | 20 | Séra Jón Þorláksson d. 1819 | Sumarauki |

**Limafallssjúki maðurinn.** Matt. 9.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 21 | 19. s. e. trín. | |
| M | 22 | Jón Espolín f. 1769 | |
| Þ | 23 | William Penn steig á land í Ameríku 1681 | |
| M | 24 | ☾ Fyrsta kv. 6.50 e. m. | |
| F | 25 | | Veturnætur af 28. viku sumars |
| F | 26 | | GORMANUDUR |
| L | 27 | Fyrsti vetrardagur | 1. vika vetrar |

**Brúðkaupsklæðin.** Matt. 22.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 28 | 20. s. e. trín. | |
| M | 29 | | |
| Þ | 30 | | |
| M | 31 | ☺ Fult t. 9.46 e.m.—Reformazíón Lúters 1517 | |

# NOVEMBER hefir 30 daga 1906.

GORMANUDUR

| | | |
|---|---|---|
| F | 1 | Allra heilagra messa |
| F | 2 | Allra sálna messa—Jenny Lind d. 1887 |
| L | 3 | 2. vika vetrar |

**Jesús prédikar um sælu.** Matt. 5.

| | | |
|---|---|---|
| S | 4 | 21. s. e. trín. |
| M | 5 | |
| Þ | 6 | |
| M | 7 | Jón Arason, biskup, höggvinn 1550 |
| F | 8 | Milton d. 1674 |
| F | 9 | ☽ Síð. kv. 2.45 f. m.—Edward Breta kon. fædd. |
| L | 10 | Lúter f. 1483 3. vika vetrar |

**Hinn skuldugi þjónn.** Matt. 18.

| | | |
|---|---|---|
| S | 11 | 22. s. e. trín.—Marteinsmessa |
| M | 12 | |
| Þ | 13 | |
| M | 14 | Rasmus Kristján Rask d. 1832 |
| F | 15 | |
| F | 16 | ● Nýtt t. 1.37 f.m.—Jónas Hallgrímsson f. 1807 |
| L | 17 | Suez skurðurinn opnaður 1869 4. vika vetrar |

**Skattpeningurinn.** Matt. 22.

| | | |
|---|---|---|
| S | 18 | 23. s. e. trín. |
| M | 19 | |
| Þ | 20 | Sir Wilfrid Laurier f. 1841 |
| M | 21 | Maríumessa |
| F | 22 | ☾ Fyrsta kv. 2.34 e.m.—Ceclíumessa |
| F | 23 | Klemensmessa |
| L | 24 | 5. vika vetrar |

**Konan blóðfallssjúka.** Matt. 9.

| | | |
|---|---|---|
| S | 25 | 24. s. e. trín. |

ÝLIR

| | | |
|---|---|---|
| M | 26 | |
| Þ | 27 | Grímur Thomsen d. 1896 |
| M | 28 | Washington Irving d. 1850 |
| F | 29 | |
| F | 30 | ☺ Fult tungl 2.20 e. m. |

# DESEMBER hefir 31 dag 1906.

| | | | Ýlir |
|---|---|---|---|
| L | 1 | Eggert Ólafsson f. 1726 | 6. vika vetrar |
| | | **Krists innreið í Jerúsalem.** Matt. 21. | |
| S | 2 | 1. s. í jólaföstu | |
| M | 3 | | |
| Þ | 4 | | |
| M | 5 | Mozart d. 1791 | |
| F | 6 | | |
| F | 7 | Jón Sigurðsson d. 1879 | |
| L | 8 | ☽ Síð. kv. 6.45 e. m.—Maríumessa— | 7. v. vetrar |
| | | **Teikn á sól, tungli og stjörnum.** Lúk. 21. | |
| S | 9 | 2. s. í jólaföstu—John Milton d. 1608 | |
| M | 10 | Alexander Dumas eldri d. 1870 | |
| Þ | 11 | | |
| M | 12 | Skúli Magnússon, landfógeti, f. 1711 | |
| F | 13 | | |
| F | 14 | George Washington d. 1799 | |
| L | 15 | ● Nýtt t. 11.54 e. m. | 8. vika vetrar |
| | | **Jóhannes í böndum.** Matt. 11. | |
| S | 16 | 3. s. í jólaföstu | |
| M | 17 | | |
| Þ | 18 | | |
| M | 19 | Imbrudagar (sæluvika) | |
| F | 20 | | |
| F | 21 | Tómasmessa | |
| L | 22 | Sólhvörf—skemstur dagur—☾ Fyrsta kv. 8.04 f. m. | 9. vika vetrar |
| | | **Vitnisburður Jóhannesar skírara.** Jóh. 1. | |
| S | 23 | 4. s. í jólaföstu—Þorláksmessa | |
| M | 24 | Aðfangadagur — jólanótt — nóttin helga | |
| Þ | 25 | Jóladagur | |
| | | | Mörsugur |
| M | 26 | Annar í jólum | |
| F | 27 | Magnús Stephensen, konferensráð f. 1763 | |
| F | 28 | | |
| L | 29 | Gladstone f. 1809 | 10. vika vetrar |
| | | **Símon og Anna.** Lúk. 2. | |
| S | 30 | Sd. milli jóla og nýárs—○ Fult t. 11.45 f. m. | |
| M | 31 | Gamlársdagur —Gambetta d. 1882 | |

# ALMANAK.

12. ár. Winnipeg, Canada. 1906.

## PÁLL BRIEM.



Páll Briem.

Sú staðhæfing hefir gjörð verið, að aldrei muni jafn-margt mikilhæfra manna verið uppi með þjóð vorri á sama tíma eins og einmitt nú. Það er ánægjulegt um það að hugsa, því nógu margt er það, sem aflaga fer og bendir frekar á afturför en framför. Enda hefir þjóð var aldrei þurft jafn-mikið á ágætum mönnum að halda og nú. Því verkefnin margfaldast, eftir þvi sem þjóðin vaknar betur til umhugsunar um eigin hag sinn og umbrotin til viðreisnar verða sterkari.

Óhætt mun þess vegna að bæta þeirri staðhæfing við, að aldrei hafi skorturinn á mikilhæfum mönnum til að skipa ýmsar helztu trúnaðarstöður þjóðarinnar verið tilfinnanlegri en nú. Stjórnarfyrirkomulag þjóðar vorrar er nú að flestu leyti í svo viðunandi horf komið, að væri nógum hæfileikamönnum hvarvetna á að skipa, er gegna vildu stöðum sínum með samvizkusemi og ósíngirni, mundi hagur þjóðarinnar taka stórkostlegum stakkaskiftum á tiltölulega stuttum tíma.

Þegar einhverjum er burtu kipt, er skara fram úr að ágætum mannkostum ekki siður en miklum hæfileikum, finna allir þeir, er þjóð vorri unna, sáran sting í hjarta sitt. Það er álíka sárt og tilfinnanlegt og þegar stórt bardagaskip sekkur á tímum styrjaldar og ófriðar með stórþjóðunum. Það er bagi, sem ómögulega getur bætzt nema með löngum tíma, — harmsefni stórkostlegt fyrir hvert einasta mannsbarn þeirrar þjóðar, er fyrir þvi stórtjóni verður.

Einum slíkum ágætismanni hefir þjóð vor orðið á bak að sjá á liðnu ári, þar sem **Páll** amtmaður **Briem** var burtu hrifinn á bezta skeiði. Hann var eflaust sá maðurinn, sem þjóð vor hafði ástæðu til að bera mest traust til allra sona sinna, í veraldlegum efnum að minsta kosti. Hann skildi flestum betur hvað að var. Hann þráði flestum heitar að bæta úr því. Hann hugsaði flestum alvarlegar um bót og viðreisn. Og hann hefði eflaust öðrum betur kunnað ráð að leggja í ótal efnum, ef honum hefði enzt aldur.

Páll Jakob Eggertsson Briem var fæddur 10. okt. 1856, sonur Eggerts sýslumanns Briem, en systursonur Sigurðar sýslumanns Sverrissonar, — bróðir síra Eiríks Briem prestaskólakennara og þeirra systkina. Hann og síra Valdimar Briem, skáldið á Stóranúpi, voru bræðra-

synir. Er sú ætt ein hin glæsilegasta að andlegu atgjörfi og sönnum mannkostum, þeirra er nú eru uppi á Íslandi. Þó hefir ef til vill enginn Briemanna haft gáfur jafn-fjölbreyttar og kjarkmiklar og Páll. Hann hefði sjálfsagt getað vísindamaður ágætur orðið, ef hann hefði lagt það fyrir sig. Ýmislegt, sem eftir hann liggur af ritverkum í þá átt, ber þess ljósan vott og ótvíræðan. Rithöfundshæfileika hafði hann prýðis-góða. Hann ritaði mál tilgerðarlaust og blátt áfram, ljóst og skipulega, og kendi þar ávalt þungrar undiröldu heitrar sannfæringar. Hann var ekki einn í tölu þeirra, er taka sér penna í hönd og rita svo og svo langt mál án þess að hafa gjört sér ljóst, um hvað þeir ætla að rita, eða án þess að hafa nokkura skoðun eða sannfæring, sem frambærileg sé fyrir almenning. Það var ávalt auðsætt á öllu, er eftir hann birtist, að það var mál, sem hann hafði gagnskoðað og gjörhugsað og lá honum um leið þungt á hjarta. Enda vöktu líka orð hans í öllum efnum meiri og meiri eftirtekt með hverju ári.

Það átti ekki heima um hann eins og svo marga aðra gáfumenn þjóðar vorrar, að hann hætti að hugsa og rita um leið og hann varð embættismaður. Áður hafði hann því nær ekkert látið til sín heyra, en eftir það urðu menn þess þegar varir, að hér var maður, sem vakandi og sofandi var að hugsa um velferðarmál þjóðar sinnar. Þegar á fyrstu árum sínum ritaði hann allmikið um ýms efni; sýndi það alt óvanalega mikinn þroska, sjaldgæfa elju og ágæta þekking á þeim efnum, er hann ritaði um. En þó þótti flestum, er slíkt kunna að meta, mest vert um árveknina og áhugann fyrir öllum velferðarmálum, sem ávalt gekk eins og rauður þráður gegn um orðin hans, bæði þau, er hann ritaði og talaði.

Svo margir af efnismönnum þjóðar vorrar hverfa um

leið og þeir gjörast embættismenn. Embœttismaðurinn gleypir manninn. Þeir hætta að rita og virðast svo fjölda margir láta sér fátt annað koma við en embættisstörfin. Sjálfsögð skylda hvers manns er það að gæta vel þess embættis, sem honum er í hendur fengið. En embættið stendur í órjúfanlegu sambandi við þjóðfélagið. Sá, sem vel vill gæta embættisskyldu sinnar, verður því að hafa alt þjóðfélagið í huga. Láti hann sér hagi þess litlu skifta, stendur hann lélega í stöðu sinni sem embættismaður. Tilfinningin fyrir þessu mun verið hafa miklu gleggri hjá Páli Briem en flestum íslenzkum embættismönnum öðrum. Þess vegna var hugur hans brennandi fyrir almennum velferðarmálum, ekki að eins á æskuárunum meðan háskólavíman var í höfðinu, heldur stöðugt heitari og ákafari, eftir því sem reynslan og árin færðust yfir hann. Hann var ekki einn þeirra, er láta sér með aldrinum kalt verða um hjartað fyrir velferð lands og þjóðar, né heldur blindaðist hann af örvænting, þótt oftast gengi gagnstætt sannfæring hans og skoðunum.

Hið eina skifti, sem hann hlaut þann heiður að vera kosinn til þings, varpaði hann sér með öllum þeim hita og áhuga, sem ávalt einkendu hann, inn í umræður og meðferð mála. Hann var þá ungur, en að upplagi ör í lund, og tók sér ákaflega nærri það öfugstreymi, er þá átti sér stað. Óhætt mun að fullyrða, að augu hans hafi þar í fyrsta sinni algjörlega opnast fyrir spilling og staðfestuleysi íslenzks þjóðlífs. Alvöruleysið, sannfæringarskorturinn og hringlandahátturinn rann honum svo til rifja, að hann mun þá hafa hugsað sér, að láta sér það ekki oftar til skpraunar verða að skipa sæti í þingsal þjóðarinnar. Þjóðfélags ásigkomulagið íslenzka birtist honum þarna í mynd svo dapurri, að hann gat því aldrei gleymt. Enda var sjón hans og skilningur á íslenzku þroskaleysi og

menningarskorti upp frá því einstaklega glöggur. Skrumið og skjallið út af yfirburðum íslenzkrar alþýðu var í augum hans andstygð. Honum var ávalt um að gjöra að skoða hvern hlut í sem allra sönnustu ljósi.

Hann komst fljótt að þeirri niðurstöðu að hefja þyrfti viðreisn þjóðar vorrar frá rótum, ef nokkuð ætti ágengt að verða. Heilt þjóðlíf er eigi unt að endurskapa á skömmum tíma. Það gjörist að eins með löngum tíma, með því að heppilegum áhrifum sé á stað hrundið.

Í huga hans risu upp tvö öfl, sem hann áleit að verða mundu öllum máttugri íslenzku þjóðlífi til viðreisnar, ef þau að eins fengju óhindruð að beita sér. Þessi öfl voru kristindómurinn annars vegar, en alþýðumentunin hins vegar.

Í hópi lærðra manna íslenzkra var Páll heitinn Briem næsta einstakur að því, er kristilegan áhuga snerti. Hann stóð þar æðimörgum prestinum framar. Hann hafði brennandi sannfæring fyrir því í brjósti sér, að það væri fullkomnasta lífsskilyrði fyrir þjóð vora að vera kristin þjóð. Alt annað, sem bent væri á henni til viðreisnar og velferðar, væri í rauninni hreinasta kák. Öllu, er sagt hefir verið hin síðustu ár til að brýna þann sannleika fyrir þjóð vorri, var hann af hjarta samþykkur. Sjálfur var hann sérlega vel kristinn maður og hafði unun af að hafa guðs orð um hönd. Á helgum dögum sótti hann ávalt helgar tíðir, bæði af því að þörf hjartans rak hann til þess og svo af hinu, að hann áleit það heilaga skyldu sína að vera þar öðrum til fyrirmyndar, nú þegar kirkjurækni má heita í kalda kol fallin með þjóð vorri.

Eru þeir ekki teljandi embættismennirnir íslenzku í veraldlegum stöðum, er breytt hafa að dæmi hans? Mundi ekki kristileg trú og siðgæði standa betur að vígi með þjóð vorri, ef æðstu embættismenn hennar hefðu

í þessu efni verið aðrir eins fyrirmyndarmenn og sýnt sönnum kristindómi aðra eins lotningu og ræktarsemi?

Örðugleikana, er íslenzkir prestar eiga við að stríða, sá hann og skildi flestum betur. Umbætur á kjörum prestanna áleit hann eitt helzta skilyrðið fyrir andlegum framförum þjóðarinnar. Óhugsandi, að hungruð prestastétt og blásnauð, er verja þarf öllum tíma sínum í baráttu fyrir daglegu brauði, fái rækt hina helgu köllun sína og vakið þjóðina til lifandi kristindóms. Einungis með því móti, að laun prestanna komist í viðunanlegt horf, svo þeir þurfi ekki að bera stöðugan kvíðboga fyrir hungri og nekt, en geti farið að gegna skyldum sínum án andvarpa, má gjöra sér von um öflugan og lifandi flutning kristindómsins. Íslenzkum prestum verður að sjá fyrir mentun eins góðri og unt er, og gefa þeim tækifæri til að kynnast kristindóminum þar sem hann er lengst kominn í lífi þjóðanna, svo vér fáum eignast hann í sömu mynd. Hver á fætur öðrum eru íslenzkir prestar að leggja niður prestskap og gjörast bændur, til þess með því móti betur að geta bjargað sér.

Þetta brennandi nauðsynjamál var hann allra manna líklegastur til að taka að sér til flutnings og heppilegra úrslita, hefði honum til þess enzt aldur. Það lá honum þungt á hjarta vegna þess honum fanst það skilyrði þess, að þjóðin eignaðist lifandi kristindóm. En það, að lífsafl kristindómsins blési lifandi anda í nasir þjóðarinnar, áleit hann aftur skilyrði allra þjóðlegra framfara.

Hið annað stórmál, sem hann hafði gjört að sérstöku umhugsunarefni, var alþýðumentunin í landinu. Ritgjörð hans um það efni, sem hann birti í tímariti því, er hann gaf út meðan hann var amtmaður á Akureyri og nefndi LÖGFRÆÐING, er ein hin vandaðasta hugleiðing um nokkurt mál, sem út hefir komið eftir nokkurn nútíðar Íslending.

Hann rekur þar sögu alþýðumentunarinnar með stórþjóðum heimsins og sýnir fram á með svo ljósum rökum að ekki er unt að hrekja, að mentunarástand þjóðar vorrar sé í miklu lakara lagi en nokkurar mentaþjóðar annarrar. Jafnvel Færeyingar séu þar töluvert á undan. Hvergi sé jafn-litlu fé til alþýðufræðslu kostað og hvergi sé því fé jafn-óviturlega varið. Haldi þessu áfram, hljóti þjóðin að sökkva niður í fáfræði,og búskapur hennar allur að lenda í handaskolum. Úr þessu verði þjóðin að bæta með því að leiða skólaskyldu í lög og veita öllum börnum landsins kost á nægilegri fræðslu. Hún verði að sjá um, að upp komist á Íslandi alþýðuskólar, er ekki standi alþýðuskólum annarra þjóða á baki.

Því miður er eigi unt að fara hér langt út í hið afarviðtæka efni ritgjörðar þessarar. Hún vakti eftirtekt mjög mikla, enda ber hún það fyllilega með sér, að höfundurinn hefir um efnið hugsað lengi og vandlega, og enga fyrirhöfn sparað til að afla sér áreiðanlegrar þekkingar á öllu, er að því lýtur.

En þeir, sem álíta íslenzkan almúga betur mentaðan og upplýstan en alþýðu annarra þjóða, sem því miður eru ekki svo fáir, þótt barnalegt sé, urðu nú fokvondir og sögðu nú, að amtmaðurinn hefði svívirt þjóð sína. Mun óhætt að fullyrða, að vinsældir hans á Norðurlandi hafi beðið heilmikinn hnekki í bili í tilefni af ritgjörðinni. Enda var Páll Briem maður oflangt á undan samtíð sinni, of glöggskygn og hreinskilinn, of samvizkusamur í allri embættisfærslu og of áhugasamur um að kippa ólaginu í lag, til þess að fá ekki fordóma vanablindrar alþýðu við að stríða.

Aldrei hafa fordómar og blindni komið átakanlegar í ljós en þegar Húnvetningar höfunðu Páli Briem við kosningar til alþingis, en kuru í stað hans bóndamann óvalinn, er

engin sérstök meðmæli hafði önnur en þau að vera bóndi, réttur og sléttur. Aldrei mun óvitið og blindnin í opinberum málum vorum hafa hærra komist. Hér var einum vitrasta manni og bezta hafnað, — þeim manni, er um fram aðra virtist hafa öll þau skilyrði, er upplýstum kjósendum er ant um að finna hjá fulltrúum sínum: vitið, viljann og hjartalagið, ágæta þekking á landsmálum og ósérplægna föðurlandsást í orðsins göfugasta skilningi.

Það var eigi unt að koma fram með neina jafnsláandi sönnun fyrir menntunarskorti og þroskaleysi íslenzkrar alþýðu. Hún ætlaði með þessu að gefa þeirri staðhæfing högg á munninn, en gaf sjálfri sér kinnhest svo sáran, að það var sem blóðið dundi henni af vitum, þótt sjálf yrði hún þess ekki vör.

En í rauninni er aldrei unt að koma neinni góðri hugsun fyrir kattarnef. Hin ágæta hugvekja Páls Briem um mentunarástand þjóðarinnar og hina bráðu nauðsyn til gagngerðra umbóta, er sjálfsagður grundvöllur nýs alþýðufræðslu fyrirkomulags á Íslandi og líklegri en flest annað, er ritað hefir verið, til að hafa stórkostlega þýðingu fyrir framtíðarmenning þjóðar vorrar. Hefði honum enzt aldur, mundi hann af alefli hafa fyrir því barist, enda væri það ein hin stærsta „stjórnarbót", sem unt er að hugsa sér. Því þar er grundvöllurinn til allra þjóðþrifa.

Frá alda öðli hafa fátækramál Íslands verið ein stærstu vandamálin. Hvergi munu jafn-margir ósjálfbjarga fátæklingar í heimi í hlutfalli við efni og ástæður þjóðanna. Hvergi eru fátæklingar til annarrar eins byrði, en hvergi er líka jafn-ömurlega með þá farið af hálfu hins opinbera. Fátækt þjóðarinnar er þar sjálfsagt í vegi, að fram úr þessum málum verði ráðið eins og bezt mætti. En óefað mætti færa margt í lag, og það til stórmikilla muna.

Fátækramálin höfðu lengi legið Páli Briem þungt á hjarta. Fátækralöggjöf landsins hafði hann kynt sér öllum betur og hugsað sér þær umbætur, sem þar þyrfti að gjöra. Hefði honum enzt aldur, mundi hann að öllum líkindum hafa lifað þá hamingjustund, að sjá högum íslenzkra fátæklinga miklu betur borgið en nú. Enda var tilfinningin fyrir líknarskyldunni í öllum myndum hennar óumræðilega næm í hjarta hans.

Naumast mun unt að nefna nokkurt velferðarmál Íslands, sem hann var ekki búinn að hugsa um með meiri alvöru og afla sér meiri þekkingar í en flestir aðrir. Hann fylti ekki hóp þeirra manna, er endurreisa vilja þjóðfélagsbygging vora með alls konar tildri á þaki og bustum. Hann hugsaði um grunninn á undan öllu öðru, að koma honum í lag og gjöra hann traustan og öruggan.

En lifandi kristindómur og sönn upplýsing, hvort öðru samlaga og samfara, er traustasti og öruggasti grundvöllurinn fyrir gæfu og velgengni þjóðanna, sem enn hefir tekist á að benda. Það að Páll Briem skildi þetta öðrum stjórnmálamönnum íslenzkum betur, gjörði hann sjálfkjörinn flutningsmann og foringja alls hins bezta, sem nú er að brjótast til valda í þjóðlífi voru, þótt seint og erfiðlega gangi. Honum duldust ekki þau dýrmætu sannindi, að lifandi kristindómur er lang-sterkasta aflið til allskonar framfara, bæði andlegra og veraldlegra, sem hægt er að hrinda af stað í þjóðlífinu og að framfaraskrumið alt fellur afllaust til jarðar, ef ekki er gengið af alhuga í bandalag við hann af framfaramönnum vorum.

Eins og vikið var á hér að framan, var Páll heitinn Briem maður bæði trúhneigður og trúrækinn. Hann var eigi síður fyrirmyndar heimilisfaðir en fyrirmyndar em-

bættismaður og hafði meðal annarra fagurra heimilissiða guðræknisiðkanir um hönd með heimilisfólki sínu.

Hann var að sögn áreiðanlegasti og bezti vinur. Hann mun hafa verið ör í lund og viðkvæmur, en þó gætinn og varasamur. Allra manna var hann friðsamastur að eðlisfari. Enginn tók sér nær en hann ljótar deilur milli blaða út af opinberum ágreiningsmálum, flokkshatur alls konar og æsingarumræður. Öllum er minnisstætt, hvernig hann í þeim efnum kvaddi til hljóðs um land alt og hét á alla góða drengi, að kunna svo vel sóma sinn, að leggja slíka lesti niður. Honum varð alveg furðanlega ágengt. Það kom annað og betra hljóð í strokkinn með blaðamönnum vorum, þótt eitthvað kunni því enn að vera ábótavant. En hann sýndi þarna eins og oftar, hve miklu góður maður má til leiðar koma, þegar hann tekur á af afli.

Þótt Páll Briem félli ungur frá hálfunnu ætlunarverki, mun sagan benda á hann sem einn ágætasta fyrirmyndarmann nútíðar kynslóðarinnar íslenzku.

# RALPH CONNOR.

(Rev. C. W. Gordon.)

Flestum, er fylgjast með því, sem gjörist í heiminum, mun það kunnugt, að Winnipeg-bær er að vaxa með óvanalega miklum hraða. Á þremur fjórum síðustu árum hefir fólksfjöldinn tvöfaldast. Og áður næsta ár er liðið, verður íbúatalan að öllum líkindum komin upp í 100,000 manns. Svo mjög hefir þessum fljóta vexti verið veitt eftirtekt, að menn, sem komið hafa frá Lundúnaborg á Englandi, hafa staðhæft, að þar sé nú stöðugt um Winnipeg talað sem þann stað, er fasteignir hækki sem stendur fljótar í verði en annars staðar á hnettinum.

Þar sem öll búsýsla mannanna er jafn-ung, og þar sem jafn-langt er komið vestur á bóginn og hér, eiga fáir á því von, að andlega lífið sé með miklum blóma. Vanalega er fyrst um það hugsað að safna auðlegð og komast sem fyrst til góðra efna. Þegar ekki eru nema fáir tugir ára síðan land var numið á einhverjum stað, er vanalega nær því eingöngu um líkamlegar afurðir búskaparins hugsað, en hinar andlegu látnar sitja á hakanum.

Ekki kemur oss til hugar að halda því fram, að þetta hafi mikið síður átt sér stað í Winnipeg en annars staðar. Gróðafýknin hefir mikil verið og er enn, og hyggindunum að langmestu leyti beitt til þeirra hluta, sem í hag koma. Samt sem áður fekk þessi vestlæga borg snemma orð á sig fyrir ágæta alþýðuskóla og þó ekki um skör fram. Kirkjur eru hér fjöldamargar og þykja prýðisvel sóttar

allflestar í samanburði við aðra bæi. Og þetta tvent þykir setja glöggara siðmenningarmark á mannfélögin en flest annað.



RALPH CONNOR
(Rev. C. W. Gordon)

Ágætir skólar og mentastofnanir hafa haft það í för með sér, að Winnipeg er að verða bær með töluverðu bók-

mentalífi. Með innlendu fólki hér er fult af félagsskap með bókmentalegum ætlunarverkum. Listaverk skáldanna eru hér lesin með fjöri og áhuga og engan viðburð í bókmentaheiminum láta menn fram hjá sér fara. Hér er keyptur mesti aragrúi af bókum, og þó má búast við, að lestrarfýsn aukist stórum nú þegar CARNEGIE-bókhlaðan nýja stendur almenningi opin til afota.

Ekki er heldur loku fyrir það skotið, að hér séu rithöfundar í ýmsum greinum og hafa ýmsir þeirra náð viðurkenningu allmikilli. Dagblöðin þykja ágæt í sinni röð, þótt enn eigi þeim eðlilega eftir að vaxa fiskur um hrygg. Hér hafa og vísindalegar kenslubækur samdar verið í ýmsum fræðigreinum. Kennarar í guðfræði hafa hér ritað bækur, er góður og göfugur viðauki hafa þótt við guðfræðislegar bókmentir. Og margt mætti til nefna til að sýna og sanna, að mannsandinn hefir verið starfandi hér að ýmsum göfugustu ætlunarverkum sínum, ekki síður en annars staðar.

Það eru skáldin,sem um fram aðra menn gjöra garðinn frægan. Í fyrndinni þóttist sá konungur fátækur, er ekki hafði eitt eða fleiri skáld við hirð sína, til að yrkja um afreksverkin og gjöra þau ódauðleg með ljóðum sínum. Og nú er svo komið, að hér í þessari vestrænu sléttuborg hafa skáld aðsetur sitt, er bera nafn hennar lengra út um heiminn en nokkurir aðrir. Hér er kona ein öldruð, sem sagt er að riti ágætar skáldsögur. Hér er ritstjóri einn, er gaf út skáldsögu síðastliðinn vetur, sem mikill rómur og góður var gjörður að. Og hér er að síðustu prestur einn, sem ritað hefir heilmargar skáldsögur, hverja annarri ágætari og má nú heita heimsfrægur maður orðinn. Þetta sýnir, að hér vex fleira en hveiti og að hér er um fleira hugsað en hinn þétta leir. Það er um prestinn, sem vér vildum hér fara nokkurum orðum.

Hann nefnir sig **Ralph Connor,** en það er eiginlega dulargerfi hans. Réttu nafni heitir hann C.W. Gordon. Það atvikaðist nokkuð skringilega að hann fekk þetta gerfinafn. Hann hafði samið við ritstjóra einn austur frá um, að fyrsta skáldsagan hans yrði prentuð í tímariti einu, sem "Westminster" kallast, en tekið fram um leið, að hann ætlaði sér ekki að láta hana koma út undir eigin nafni sínu, án þess þó að taka nokkurt ákveðið gerfinafn til. Þegar búið var að setja söguna, sendi ritstj. höfundinum hraðskeyti og bað hann um nafnið. Presturinn fór að hugsa sig um. Hann var þá umsjónarmaður trúboðs Presbytéra í norðvestur Kanada og var það prentað með stóru letri á bréfapappírinn hans eins og gjörist. Augað staðnæmdist við orðin „Canadian North"; hugkvæmist honum þá að stytta þetta, gjöra úr því **Cannor** og láta það verða dularnafn sitt. En ritsímarinn gjörði honum þann grikk að búa til úr þvi Connor, sem er býsna algengt nafn írskt. Ritstjórinn hálfhneykslaðist á írska nafninu; kom honum þá það heillaráð í hug að bæta það upp með því að setja enskt nafn algengt fyrir framan. Með þessu móti varð sagan eftir Ralph Connor og má nærri geta, að höfundurinn hafi rekið upp stór angu, en lét sér þó vel líka og hefir borið það nafn síðan.

Gordon prestur er samt hvorki enskur né írskur, heldur rennur hreint blóð skozkt í æðum hans. En þar sem hann er borinn og barnfæddur hér í Kanada, er hann ósvikinn Kanadamaður að öllu. Faðir hans er prestur, öldungur mikill nú orðinn, sem til er tekið sem hinnar mestu kempu að burðum og líkamsatgjörfi, enda er hann nú að ferðast yfir Atlants-hafið áttatíu og fjögra ára gamall eins og ekkert væri. Hann kom ungur til Kanada og gjörðist prestur í bygðarlagi einu skozku. Gekk hann þar að eiga konu eina, hámentaða prestsdóttur, sem nítján ára gömul varð kennari í heimspeki við skóla þann í

Austur-Kanada, er Mt. Holyoke Seminary nefnist. Að tveim árum liðnum var henni boðið að verða forstöðukona skóla þessa, en þá vildi hún heldur ganga að eiga þenna Daniel Gordon, ungan prest einhvers staðar út í óbygðum Kanada. Enda hét faðir hennar Robertson, af hinni frægu Robertson ætt, sem margt stórmenni er af komið, bæði í vísindum og listum.

Efnið var því gott í drengnum þeirra. Enda var hann þegar í æsku fyrir bókina gefinn og að enduðu lýðháskólanámi var hann sendur til háskólans í Toronto. Á sumrum vann hann að bændavinnu og hirti þá ekki um, þótt oft blæddi úr höndum hans, þegar Kanada-þistillinn var mikill í hveitinn eins og oft vildi verða. Tápmaður varð hann samt ekki líkamlega, en tenglugrannur og skarpleitur alla æfi. Vel gekk honum námið og ágætan orðstír gat hann sér með ungum námsmönnum. Kennari var hann eitt ár í gömlu málunum og sýnir það, að hann hefir þótt þar vera vel að sér. Eftir það tók hann að lesa guðfræði við guðfræðiskóla presbytéra í Toronto og útskrifaðist 1887. Upp úr því dvaldi hann eitt ár á Skotlandi og meginlandi Norðurálfunnar. Þegar hann kom heim aftur, flaug hugur hans þegar vestur á bóginn og brátt var hann kominn alla leið vestur í Klettafjöll. Tók hann þá ástfóstri miklu við fjöllin og fjallabúa, sem þar voru hingað og þangað, einir og yfirgefnir af öllum andlegum áhrifum. Brann þá hjartað í brjósti hans af löngun til að verða þessum frumherjum menningarinnar að liði í andlegum efnum, því þarna varð hann var við spilling og freistingar, er tefldu voðatafl sitt um mannslífin með feykimikilli áfergju. Mennirnir voru að leggja landið undir sig en um leið var alls konar spilling að leggja þá undir, af því kirkjan og kristindómurinn kom ekki til að hjálpa þeim.

Þarna kyntist hann manni einum, ágætum og frægum

trúboða, dr. Robertson að nafni, sem virðist hafa haft sterk og mikil áhrif á hann, enda á Norðvestur-landið þeim ágætismanni mikið upp að unna. Hann er nú dáinn og er sagt, að Gordon prestur sé nú að færa æfisögu hans í letur. Það var nú starf hans þarna vestur í fjöllunum að ferðast milli smábæjanna með fram brautinni og kenna kúasmölunum eitthvað betra en að drekka og svalla, sóa í spilum og hafa svívirðilegan munnsöfnuð. Svona þjónaði hann fjöllunum um tíma. En þau létu honum aftur á sinn hátt þjónustu sína í té, eins og hann kemst sjálfur að orði. Þau lyftu huga hans hærra og blésu honum nýrri andagift í brjóst. Honum mun einmitt á þessu tímabili hafa ljóst orðið, að hann var skáld.

Fyrstu sögurnar hans, er hann nefnir „Black Rock" og „Sky Pilot" lýsa því, sem fyrir augun bar vestur í Klettafjöllum. Lífi kúasmalanna er þar brugðið upp fyrir augu lesandans og það birtist þar bæði í fegurð þess og ljótleik. Alt verður lifandi fyrir hugskotssjónum manns. Þar er einhver háfjallahreimur, er hrífur hugann. Hátign fjallanna svífur eins og góður engill yfir öllu og gefur fyrirheit um álíka fegurð í lífi mannanna, þegar aldir renna.

Svo góð þótti frammistaða hans sem prests á þessum útkjálka mannfélagsins, að honum bauðst nú hvert álitlegt prestakallið á fætur öðru. En hann sinti því ekki, heldur tókst aftur ferð á hendur til Skotlands til að safna þar fé til heimatrúboðs Presbytéra í vestur-Kanada. Gekk honum það svo vel, að hann safnaði að sögn ekki minna en fimtíu þúsundum dollara og var það álitleg fúlga. Eftir þetta settist hann að hér í Winnipeg og gjörðist prestur lítils og fremur óálitlegs safnaðar, er Sankti Stefánssöfnuður nefnist. Nú er hann stór og blómlegur söfnuður orðinn og hefir reist eina hina veglegustu kirkju borgarinnar á horni Portage Avenue og Spence strætis. Þangað fara

ferðamenn hér um bil allir, er til borgarinnar koma, hvaðan úr heimi sem þá ber að, því allir hafa heyrt um skáldið góða, sem sléttuborgin hefir að hrósa sér af, og þeir, er eitthvað hafa eftir hann lesið, eru sólgnir í að hafa kynni af manninum og prestinum, sem hjá honum birtast í fagurri eining.

Hann er í stólnum enginn glæsilegur ræðuskörungur. Það er undur einfalt og blátt áfram, sem hann hefir að segja. En það kemur frá hjartanu og fer til hjartans. Það er ekki nein heimspeki eða fordildar hugsanir, er hann kreistir upp úr sér. Heldur leitast hann við að ná í það, sem flestir eru um að hugsa og bregða yfir það nýju ljósi. Það eru margir ágætis prestar hér í Winnipeg og sumir þeirra eftir flestra dómi miklu mælskari. En vafasamt mjög, þegar alt er athugað, hvort orðin þeirra gjöra mönnum jafn-varanlega hlýtt um hjartað. Andans heimur virðist standa honum opinn og sjón hans þangað inn óvenjulega glögg. Enda segja þeir, sem eiga þess kost að hlýða prédikun hans stöðugt, að aðal-umtalsefni hans, er hann aldrei þreytist á að kljúfa til mergjar fyrir tilheyrendum sínum, sé veruleiki hins andlega heims. Hve nær sem hann talar, hvort heldur í kirkju eða utan kirkju, eru hugsanir hans eins og hægur arineldur, sem brennur svo hlýtt og notalega, að öllum líður vel, og eru farnir að hugsa göfugar hugsanir og hreinar áður en þeir sjálfir vita. Harðorður og bersögull getur hann þó stundum verið og enginn hefir betur flett ofan af syndum hins fínna hluta mannfélagsins hér í borginni en einmitt hann.

Hvað eftir annað hafa auðugir útgefendur bóka reynt að fá hann til að hætta við prestsstöðu sína og gefa sig algjörlega við bókmentum. Öllum slíkum tilboðum hefir hann hafnað, enda kemur öllum saman um, að honum láti einstaklega vel að vera prestur. Álítur hann það hina

eiginlega köllun sína í lífinu, sem hann ekki vill fyrir neinn mun hverfa frá.

Í skáldsögum hans öllum brennur sami arineldurinn og þegar hann talar, hægt og hlýtt. Efnið er með ýmsum tilbreytingum, en í sjálfu sér ávalt hið sama,—hvernig góðir menn geta, án þess nokkur verði þess eiginlega var, beitt áhrifum sínum til að hnekkja spillingunni í mannssálunum og hjálpa þeim, er hún hefir fengið vald yfir undan oki hennar. Hann hefir óbilandi trú á sigursæld hins góða. Betur en flestum öðrum tekst honum að lýsa því, hve hægt það fer, að það beitir aldrei neinu valdi, en birtist í gerfi yfirlætislauss vinar, þegar mikið þarf á vini að halda.

Til eru bækur, sem nefndar hafa verið sunnudagsskólabókmentir. Hið bezta úr þeim er að mörgu leyti gott og mörg göfug sannindi þar fyrir mönnum brýnd í söguformi. En tilgangurinn með söguna er öllum einlægt auðsær. Það er dálílil prédikun í sögustíl. Listina og skáldskapinn vantar. Bókmentalegt gildi slíkra bóka er ekki í miklu áliti, þótt þær geti oft náð tilgangi sínum. Hjá miklum fjölda manna hefir lengi verið þorsti eftir skáldsögum, þar sem höfundarnir hefðu alt gott og göfugt í jafn-miklum hávegum og væri jafn-ant um að koma því inn í sálir tilheyrenda sinna, en hefðu lag á að bera það fram í gullskálum — væru skáld í orðsins fylsta skilningi.

Með enskumælandi mönnum hafa tveir prestar nú á síðustu árum látið sér þetta betur hepnast en nokkurum áður. Það er IAN MACLAREN á Englandi og RALPH CONNOR hér í Kanada. Báðir eru nú heimsfrægir menn orðnir af bókum sínum, einkum þó hinn fyrrnefndi, enda er hann eldri maður og miklu lengra síðan hann tók að rita bækur sínar. En til dæmis um það, hve Ralph Connor

hefir náð í hjörtu manna má benda á, að í sumar kvað farandsali einn hafa verið á ferðinni fyrir félag það, er gefur út bækur hans, til að fá menn til að skrifa sig fyrir næstu sögunni hans, sem líklega hefir enn ekki fæðst í heila skáldsins; staðnæmdist hann hér í Winnipeg lítið eitt og fekk ekki færri en þúsund áskrifendur; en þegar þeir voru þúsund hér, hve margir skyldu þeir þá verða, þegar farið hefir verið um öll heimkynni enskumælandi manna. Telst mönnum svo til, að bækur hans muni keyptar af hálfri annarri miljón manna, og þýddar hafa þær þegar verið á fimm eða sex tungumál.

Meðan Ralph Connor dvaldi vestur í Klettafjöllum kom út á Englandi skáldsagan merkilega, „Robert Elsmere", eftir skáldkonuna gáfuðu, Mrs. HUMPHREY WARD. Ritaði þá GLADSTONE gamli frægan ritdóm um bókina, sem margfaldaði útbreiðslu hennar, þvert á móti því sem til var ætlast. Því bókin er eitt hið gáfulegasta innlegg í trúneitunaráttina, er birzt hefir frá hendi nokkurs skálds á seinni tímum. Ralph Connor las söguna og er sagt, að hann hafi þá heitið því að rita skáldsögu til að hrekja öll öfugmælin í Robert Elsmere. Enda ganga allar sögur hans í þveröfuga átt, eins og búast mátti við. Og það er fult eins mikil list í sögunum hans og sögum skáldkonunnar ensku, og traustari tökum mun hann hafa náð á huga lesenda sinna en henni hefir nokkuru sinni tekist, þrátt fyrir miklar gáfur og snild, svo að þegar alt er til greina tekið er ekki ólíklegt, að áhrifin hans muni vega fullkomlega upp á móti hennar, og öll miða þau til að styðja hið bezta, sem til er í fari mannanna. Þessi vesturhluti Kanada, sem alveg nýlega er að komast inn í mannkynssöguna, hefir því fullkomna ástæðu til að hrósa happi yfir skáldinu sínu.

Það liggur þegar heilmikið verk eftir manninn. svo

mikið að furðu gegnir, þegar tekið er tillit til þess, að hann hefir að eins haft skáldskapinn í hjáverkum. Hann hefir þegar hrist einar 5—6 skáldsögur fram úr ermi sér og er þó enn maður á bezta aldri, svo miklu má eiga von á frá honum enn. Helztu bækurnar hans eru þessar: ,,Black Rock'', ,,Sky Pilot'', ,,The Man from Glengary'' ,,Glengary Schooldays'', ,,The Prospector''. Í Glengary bókunum lýsir hann æskustöðvum sínum í Austur-Kanada. Sagt hefir verið, að móðir hans muni vera í bókum hans öllum og að myndin hennar muni svo rík í huga hans, að hann geti naumast svo skáldsögu ritað, að göfuga andlitið hennar gægist þar ekki einhvers staðar fram. Líka virðist honum umsjónarmaður trúboðsins öldungis ógleymanlegur, sem snortið mun hafa einhvern streng í hjarta hans, er enginn annar mun hafa náð í.

Ennþá hefir hann einna lengst komist í sögunni ,,The Sky Pilot'', eða ,,himnalósinn'', en það var háðungarnafn kúasmalanna á prestinum. Þó eru allar sögurnar býsna jafnar að gæðum og hafa hver út af fyrir sig nokkuð til síns ágætis. Hin síðasta, ,,The Prospector'', heldur fullkomlega skáldorðstír hans uppi, þótt hún bæti þar ef til ekki beinlínis við.

Sagan hans um veiku stúlkuna, er fallið hafði af hestbaki og lest limu sína svo, að hún var bundin við þrautabeð sinn alla æfi upp frá því, gleymist naumast nokkurum þeim, er hana lesa, og annars kunna að meta það sem vel er ritað og hugsað, enda hyggjum vér, að skáldið hafi þar enn hæst komist. Fyrir þá litlu sögu mun mörgum verða skiljanlegri hin guðlega þýðing mótlætisins og mannlegs böls í ótal myndum þess en unt væri að gjöra með mörgum prédikunum.

Sé list skáldsins í því fólgin að skýra mannlífið og lyfta því upp í æðra veldi, hefir sléttunum vestrænu auðn-

ast að láta upp vaxa meðal hveitisins skrautplöntu, öllum heimi til yndis og sálubótar, þar sem skáldið Ralph Connor er.

---

# Mabel McIsaac.

EFTIR J. MAGNÚS BJARNASON.

---

Allir Íslendingar, sem dvalið hafa í Nýja Skotlandi, kannast við Musquodoboit-héraðið. Í miðju héraðinu er Cooks Brook og skamt fyrir vestan er Chaswood-dalur. Þar átti Mabel McIsaac heima. Húsið hennar stóð í miðri hlíðinni að vestan, rétt fyrír sunnan Duncans-lækinn, sem kemur þar norðan hálsinn og steypir sér fram af brúninni og grefur sig niður hlíðina beint á móti gilinu, þar sem Floss-áin kemur ofan í dalinn af austari hálsinum. — Á vorin er Duncans-lækurinn vatnsmikill og straumharður, og þá er hann látinn flytja trébolina til sögunarmylnunnar.

Það er fallegt í Chaswood-dal, en býlin eru fá. Kirkjan stendur á dáitlum hól í miðjum dalnum, og hálfa mílu þar frá er grafreiturinn; hann er fast hjá póstveginum. Og búðin stendur hálfa mílu þar fyrir sunnan. Í kring um grafreitinn er lágur grjótgarður og í kring um hann er þétt röð af fallegum, hávöxnum álmtrjám. Það þýtur þar ömurlega í laufinu, þegar golan fer um dalinn. Og þegar tunglið veður í skýjum og stormur er, þá taka skuggar trjánna á sig ýmsar kynja-myndir á leiðunum.

Fram hjá þessum grafreit þurfti Mabel McIsaac að fara, þegar hún fór til búðarinnar. Eg man, að eg sá

hana í fyrsta sinn sumarið 1878, þá var eg tólf ára gamall, en hún um tvítugt. — Það ár var eg vikadrengur hjá Donald friðdómara. —Eg mætti henni á brautinni milli búðarinnar og grafreitsins. Hún kom frá búðinni með körfu á handleggnum og gekk berfætt. Hún var há og þreklega vaxin, með hrafnsvart hár, sem féll í lausum lokkum um herðar henni. Og hún hafði barðastóran og kollháan stráhatt á höfðinu. Ekki var hún verulega fríð sýnum; andlitið var fremur þunglyndislegt, en bauð þó góðan þokka og lýsti mikilli staðfestu. Augun voru grámórauð og stór og ennið hátt. Hún gekk hægt en þreklega og limaburðurinn var allur sérlega mjúklegur, og hún laut við og við niður til að huga að blómunum, sem spruttu við veginn. Og alt af raulaði hún fyrir munni sér part úr raunalegri alþýðuvísu, sem var algeng í Nýja Skotlandi á þeim árum. Röddin var þýð og viðfeldin og lýsti djúpri angurværð.

Eg bauð henni góðan dag um leið og eg gekk fram hjá henni. ,,Góðan dag, litli drengur!" sagði hún og hneigði sig ofurlítið, gekk nokkur spor áfram, leit svo við og horfði á eftir mér fáein augnablik. Eg leit líka við. Augu okkar mættust sem allra snöggvast. Mér fanst augnaráð hennar vera hálf-flóttalegt. Eg hélt svo áfram minn veg og hún sinn, og eg heyrði að hún fór aftur að raula vísuna.

Þegar eg fór heim um daginn, þá nam eg staðar hjá grafreitnum og sá að Mabel var þar fyrir. Hún laut ofan að gröf, sem var í suðaustur-horni garðsins. En þegar hún gætti að mér, hrökk hún við og fór skyndilega út um hliðið og hélt áfram í áttina til hússins í hlíðinni. Þegar hún var farin, gekk eg inn í garðinn og að leiðinu, sem hún hafði staðið hjá. Það leit út fyrir að vera nokkuð gamalt, leiðið það, því það var vallgróið. Þar var enginn steinn

og ekkert, sem gaf til kynna, hver þar væri grafinn. En tvær litlar furuviðargreinar höfðu nýlega verið lagðar þar í kross, og fáein ný-uppslitin blóm láu þar líka, og var þeim raðað þannig, að þau mynduðu stafina: H. og M.

Í næstum hverri einustu viku, alt sumarið, sá eg Mabel í grafreitinum; alt af var það sama leiðið, sem hún var að hugsa um og hlúa að, og alt af raðaði hún nýjum og nýjum blómum á það og lagði þar af og til tvær litlar furuviðargreinar í kross. En ævinlega, þegar hún gætti að mér, þá fór hún út úr garðinum og heim til sín, án þess að tala við mig eitt einasta orð.

Í fyrstu hélt eg, að þetta væri gröf föður hennar, sem hún var alt af að hugsa um. Eg vissi, að hann var löngu dáinn — að hann hafði dáið, þegar Mabel var lítið barn. En hitt vissi eg ekki þá, að Atlantshafið væri gröfin hans.

Mabel og móðir hennar bjuggu einar sér í húsi, sem var í miðri hlíðinni, rétt fyrir sunnan Duncans-lækinn. Í kring um húsið var dálítill runnur af kræklóttum eplatrjám. og neðar í hlíðinni stóð gömul hlaða og fjögur álmtré. Eg man það, að okkur íslenzku drengjunum þótti þessi hlaða nokkuð einkennileg, af því að annar stafninn var rauður á lit, en hinn blár, og báðar hliðarnar bleikar.— Þær mæðgur voru víst fremur fátækar, en þær komust þó af án þess, að þiggja hjálp annarra. Báðar voru þær mjög vinnugefnar, eins og flestar skozkar alþýðukonur í Nýja Skotlandi, og þeim þótti það engin minkunn, að vinna úti-verk, ef alt var hreint og fágað inni í húsinu þeirra. Eg heyrði sjaldan neinn tala um þær mæðgur, en þegar svo bar við, þá var það ævinlega gott, sem um þær var sagt. ,,Hún Mrs. McIsaac er ráðvönd og iðjusöm kona'', heyrði eg húsbónda minn segja einu sinni; ,,og hún Mabel

er dugleg stúlka og hefir gott hjarta, en hún er ekki traust hérna.“ Hann benti á ennið á sér.

Einu sinni seint um sumarið var eg sendur til manns, sem Higgins hét; hann bjó á hálsbrúninni fyrir vestan McIsaacs-húsið. — Hjá honum gistu Íslendingar oft, þegar þeir fóru til Stewiacke. — Á leiðinni heim kom eg við hjá þeim mæðgum, því að vegurinn lá þar fast hjá hlöðunni, og bað um að gefa mér að drekka.

,,Þenna dreng hefi eg ekki fyrr séð,“ sagði Mrs. McIsaac, þegar hún var búin að gefa mér að drekka. Hún var lítil kona með hvöss og tinnusvört augu.

,,Eg er vikadrengur hjá herra Donald“ ,sagði eg

,,Og þá nýkominn til hans“, sagði Mrs McIsaac.

,,Já, eg kom í vor“, sagði eg.

,,Hefir þú séð hann fyrr, Mabel?“ sagði Mrs. McIsaac og leit til dóttur sinnar.

,,Já“, sagði Mabel. Hún horfði austur í dalinn, eins og hún sæi þar eitthvað nýstárlegt.

,,Og þú hefir aldrei sagt mér það, að Donald væri búinn að fá nýjan vikadreng“.

,,Nei“, sagði Mabel. hún sneri sér við og horfði með hvössu augnaráði til gilsins fyrir norðan, eins og hún sæi eitthvað koma þar upp á brúnina.

,,Og hvar gat Donald fengið svona frísklegan dreng?“

,,Eg veit ekki“, sagði Mabel, hún sneri sér aftur við og horfði austur í dalinn.

,,Eg er frá Mooselands-hálsum“, sagði eg.

,,Mooselandshálsum! Heyri eg rétt“, sagði Mrs. McIsaac, ,,eg hélt, að þar byggju eintómir Íslendingar“.

,,Og eg er Íslendingur“, sagði eg. Og eg man að eg þóttist mikill af því, að vera Íslendingur.

,,Og þú hefir aldrei sagt mér, að hann væri Íslendingur", sagði Mrs. McIsaac og leit til dóttur sinnar.

,,Ég vissi það ekki", sagði Mabel. Hún horfði fast á mig fáein augnablik, og mér sýndist hún alt í einn verða sérlega döpur í bragði; en eg gat ekki skilið, að eg eða þjóðerni mitt hefði á nokkurn hátt orsakað það. — Alt í einn gekk hún í áttina til gilsins, og eg heyrði að hún fór að raula fyrir munni sér alþýðuvísuna, sem eg hafði áður heyrt hana kveða.

Móðir hennar horfði þegjandi á eftir henni um stund og sagði svo við mig: ,,Svo þú ert íslenzkur?"

,,Já, og meira að segja, fæddur á Íslandi", sagði eg.

,,Og þá—hefir hann líka verið íslenzkur",sagði hún eftir að hafa verið hugsi um stund.

,,Hver?" sagði eg.

,,Ó, það gjörir ekkert til!" sagði hún. ,,En komdu hérna við og fáðu þér að drekka, þegar þú ert hér á ferð."

Eg þakkaði henni, kvaddi hana svo og fór mína leið.

Nokkurum dögum síðar mætti eg Mabel á póstveginum niðri í dalnum. Eg man, að það var nokkuð heitt þann dag, þó álíðið væri sumars.

,,Góðan daginn, litli drengur!" sagði hún og setti körfuna niður á brautina.

,,Góðan daginn!" sagði eg og lyfti hattinum mínum.

,,Það er heitt," sagði hún eftir stundar-þögn og strauk hárið frá sveittu enninu.

,,Já, það er ósköp heitt!" sagði eg og tók upp vasaklútinn minn, þó eg væri ekkert sveittur.

Nú kom löng þögn. Hún horfði niður fyrir sig og rótaði mölinni ofurlítið til með berum fætinum.

,,Þektir þú hann?" sagði hún alt í einu og horfði

beint framan í mig og það var undarlegur glampi í augunum hennar.

,,Hvern?" sagði eg.

,,Manninn, sem hún móðir mín spurði þig um", sagði hún.

,,Hún spurði mig ekki um neinn mann," sagði eg.

,,Spurði hún þig ekki?" sagði hún og augu hennar urðu stór, og hún skifti litum.

,,Nei", sagði eg.

,,Vertu sæll, litli drengur!" Hún tók upp körfuna og hélt áfram.

,,Vertu sæl!" sagði eg og horfði á eftir henni. Eg mintist nú orða húsbónda míns. ,,Hún er ekki traust hérna", sagði hann og benti á ennið á sér. Nú þóttist eg skilja, hvað það þýddi. — — —

Um haustið seint kom eg aftur til þeirra mæðgnanna. Mrs. McIsaac vísaði mér inn í borðstofuna. Þar var alt mjög fátæklegt, en hreint og fágað. Mabel sat við gluggann, sem vissi að dalnum, og var að sauma .Hún var sérlega þunglyndisleg og leit af og til út í gluggann, eins og hún ætti von á einhverjum upp hlíðina. Móðir hennar gekk til hennar og hvíslaði lengi í eyra henni. Það var eins og Mabel tæki ekki eftir því, sem móðir hennar var að hvísla, því hún hélt áfram að sauma og líta út í gluggann. Loksins stóð hún þó upp og gekk að skáp,sem þar var nærri. Á skápnum var lítill kassi; hún opnaði hann tók þar úr stóran lykil, og fekk móður sinni, og fór svo aftur að sauma.

,,Eg ætla að sýna þér nokkuð", sagði Mrs. McIsaac við mig. Og svo benti hún mér að koma með sér inn í lítið herbergi, sem var inn af borðstofunni. — Í herbergi þessu stóð fornfálegt rúmstæði og lítið borð. Og í einu horninu var stórt, grænt koffort með íslenzku lagi. Tveir

stórir svartir stafir — H. og M. — voru sinn hvoru megin við skráargatið.

,,Hefirðu séð svona koffort fyrr?" spurði Mrs. McIsaac.

,,Já", sagði eg; ,,foreldrar mínir eiga tvö koffort alveg eins, að undanteknum litnum og stöfunum.

Hún opnaði svo koffortið með lyklinum, sem dóttir hennar hafði fengið henni.

,,Minnist þú að hafa séð svona hluti fyrr?" sagði hún og benti ofan í koffortið.

,,Já", sagði eg og horfði undrandi á það, sem eg sá í koffortinu; ,,þetta eru alt íslenzkir hlutir."

Þar var fyrst og fremst karlmanns-fatnaður úr fallegu, dökku íslenzku vaðmáli, mórauðir sokkar og tvennir ljósbláir vetlingar. Þar voru líka bryddir sauðskinsskór með fallegum íleppum. Og í íleppana voru saumaðir stafirnir H. og M. Þar var gamalt íslenzkt Nýjatestamenti og sálmabók. Eg man, að á saurblaðinu á sálmabókinni stóð skrifað: ,,Þessa bók á Sigurlaug Bjarnhéðinsdóttir með öllum rétti". Fáeinar bækur aðrar voru þar, og eitt bréf, sem kvenmaður hafði skrifað til systur sinnar; og á umslagi sá eg, að það hafði ekki verið sent með pósti. Neðst í koffortinu voru nokkur gömul og ryðguð smíðatól, og fáein blöð úr gamalli íslenzkri sögubók. — Eg skoðaði alla þessa hluti með mestu gaumgæfni, en ekkert gaf mér til kynna, hver eigandinn væri. Eg var bara viss um það, að það var Íslendingur, sem átti, eða hafði átt, þessa hluti. Og eg þóttist vita, að H og M væru upphafsstafirnir í nafninu hans. — Þegar eg var búinn að skoða alt, sem í koffortinu var, raðaði Mrs. McIsaac öllu eins og það hafði áður verið, og læsti svo koffortinu.

,,Hver á þetta?" spurði eg.

,,Maðurinn, sem dó hérna, átti það", sagði hún og

leit um leið á rúmstæðið; ,,hann sagðist vera Íslendingur, en margir trúðu því ekki. Menn þektu hér svo lítið til Íslendinga og héldu, að þeir væru svipaðir Eskimóum; en hann var hár og þrekinn með glóbjart hár og rjóðar kinnar og falleg blá augu. Hann kom hingað tveimur árum áður en Íslendingar settust að á Mooselands-hálsum. Og hann kom hingað beina leið frá Halifax. Sumir héldu, að hann hefði strokið úr hernum, og væri ekki Íslendingur, af því hann gekk svo beinn. En presturinn sagði, að hann væri áreiðanlega Norðmaður eða Dani, af því hárið hans væri glóbjart. Hann átti fyrst framan af mjög erfitt með að mæla á enska tungu, en honum gekk betur að skilja það, sem við hann var sagt. Menn kölluðu hann Harry, því menn gátu ekki nefnt nafnið hans, en eg man að fyrstu þrír stafirnir í því voru: H-a-l, því hann skrifaði það einu sinni fyrir okkur. Hann vann við skógarhögg hjá herra Cameron norður á hálsinum; hann þótti góður verkmaður og öllum drengjunum var vel til hans. En svo varð hann fyrir slysi vorið 1875, þegar verið var að flytja trébolina ofan eftir Duncans-læknum. Eg vissi aldrei vel,hvernig það atvikaðist,en hann meiddist óttalega við þá vinnu og kostaðist mikið innvortis. Hann var fluttur hingað í húsið til okkar, því að slysið vildi til hér skamt frá. Hér lá hann af og til rúmfastur alt sumarið og dó um haustið í rúminu þarna. Það var hún Mabel, sem var hjúkrunarkonan hans, og hún hefir alt af verið undarleg síðan að hann dó. Hann var grafinn í suðaustur-horninu á grafreitinum, þarna austur í dalnum, og allir drengirnir hans Camerons fylgdu honum til grafar — og við líka. Eg man, að hann vildi segja okkur eitthvað áður en hann dó, en við gátum ekki skilið, hvað hann sagði. Það var eitthvað viðvíkjandi móður hans. —Aumingja Mabel hefir skreytt gröfina hans með blómum

á hverju sumri. Henni þótti orðið svo—en hvað er eg að segja! Hún er há-skozk í báðar ættir, en Háskotar eru seinir til að gleyma þeim, sem þeim hefir einu sinni þótt vænt um. — Þegar Íslendingar settust að á Mooselandshálsum, þá báðum við prestinn okkar að komast eftir því, hvort þeir könnuðust nokkuð við þenna mann og fólk hans. En hann hefir víst ekki orðið neins vísari í því efni.— Við geymum koffortið þangað til einhver af ættingjum hans gefur sig fram.“

„En munið þið ekki seinna nafnið hans?“ sagði eg.

„Nei, því miður munum við það ekki, en fyrsti stafurinn í því var M, og það endaði á „son.“ Hann var aldrei kallaður annað en Harry. — En reyndu að komast eftir því, hver hann var og hvar ættingjar hans eru, og láttu okkur svo vita það. — Ó, eg man, að hann vildi segja okkur eitthvað um hana móður sína, rétt áður en hann dó. Það voru tár í fallegu bláu augunum hans þá, og hann klappaði á hönd mína. Hann var alt af svo góðlátlegur, og þakklátur var hann fyrir alt, sem fyrir hann var gjört, og hann kvartaði aldrei. En við áttum svo bágt með að skilja hann. — Um mitt sumarið virtist honum vera að batna, og hann var á fótum nokkura daga. Við bárum ruggustólinn út í garðinn á daginn, og hann sat í forsælunni undir stóra eplatrénu þarna, stundarkorn eftir hádegið. En svo hnignaði honum brátt aftur og — dó um hanstið. — Já, aumingja Mabel hefir alt af verið svo undarleg síðan.“

Mrs. McIsaac horfði út í bláinn litla stund, og eg sá að henni vöknaði um angun. Svo gengum við fram í borðstofuna, þar sem við höfðum skilið við Mabel. En hún var horfin.

Litlu síðar kvaddi eg Mrs. McIsaac og hélt heim.

Niðri í hlíðinni mætti eg Mabel. Hún hélt á furuviðargrein í hendinni og var að raula fyrir munni sér.

,,Veiztu hvort hún móðir hans er enn á lífi?" sagði hún lágt og lagði aðra hönd sína á öxl mér.

,,Nei, eg veit það ekki", sagði eg.

,,Reyndu að komast eftir því fyrir mig. Ó, reyndu það, litli drengur!"

,,Eg skal reyna það", sagði eg.

,,Guð blessi þig, litli drengur, guð blessi þig!" Hún strauk hendinni mjúklega um vanga minn og gekk svo heim að húsinu. En við og við leit hún til baka og horfði austur í dalinn. — — —

Eg fór heim til Mooselands rétt fyrir jólin og kom ekki aftur í Chaswood-dal fyrr en í Júnímánuði 1882, þegar eg var að leggja á stað alfarinn vestur til Winnipeg. Eg var þá einn dag um kyrt hjá gamla húsbónda mínum. Þá var Mrs. McIsaac dáin, en Mabel var enn í litla húsinu í hlíðinni, og föðursystir hennar var flutt þangað til hennar, með son sinn 15 ára gamlan, sem var mállaus. Eg heimsótti Mabel, og hún tók mér eins og eg væri bróðir hennar. Hún spurði mig strax, hvort eg hefði komist eftir því, sem hún hafði beðið mig um; og þegar eg sagði henni, að eg væri einkis vísari í því efni, þá varð hún sérlega döpur í bragði og varpaði mæðilega öndinni.

,,Eg ætla að sýna þér nokkuð", sagði Mabel. Hún gekk með mér ofan hlíðina og austur í grafreitinn. Við námum staðar við gröfina í suðaustur-horninu. Þar var nú dálítil marmara-hella og á hana var grafið: ,,H. M. —26 ára—fæddur á Íslandi."

,,Eg gjörði þetta", sagði hún; ,,eg gjörði það til þess, að gröfin hans týndist ekki. Hann átti hér engan að. — Ef þú kemst að því einhvern tíma, hvar ættingjar hans

eru, þá láttu þá vita, að þetta merki sé á gröfinni hans. En þú þarft ekki að geta mín''.

Þetta var í síðasta sinni, sem eg sá hana, og í síðasta sinni, sem eg kom í grafreitinn í Chaswood-dal.

— — —

Nú er Mabel dáin. Það eru tvö ár síðan. Hún giftist aldrei; og fólkið sagði að hún væri ,,undarleg''. En þeir voru svo fáir, sem vissu, að á hjarta hennar lá þungur harmur, sem hún var alt af að hlúa að og vildi ekki gleyma. — Það er enginn steinn á gröfinni hennar, en marmarahellan sézt enn á leiði Íslendingsins. Hver hann hefir verið, veit eg ekki. En hitt veit eg, að enginn hefir átt tryggari vin en hann, þar sem hún Mabel McIsaac var.

# SAFN
TIL
# LANDNÁMSSÖGU ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI.

## Saga íslenzku nýlendunnar í bænum Winnipeg.

Eftir síra Fridrik J. Bergmann.

### 39. Hin fyrstu kirkjuþing.

Hér að framan (sbr. 29. og 30. kafla) hefir nokkur grein verið fyrir því gjör, hvernig kirkjuleg starfsemi hófst með Íslendingum í Winnipeg. Frá komu síra Jóns Bjarnasonar frá Íslandi til þess að gjörast andlegur leiðtogi lúterskra kirkjumála, hefir þegar greint verið og frá því, hvernig hann hóf prestlega starfsemi sína hér. Viljum vér nú halda frásögu þeirri áfram.

Þegar hér er komið sögunni, verður að hafa hugfast, að nú höfðu Íslendingar tekið sér bólfestu á fimm aðalstöðvum hér í Vesturheimi: í Nýja Íslandi, í Winnipeg, í Minnesota, í N.-Dakota og Argyle, og voru þeir býsna fjölmennir á öllum þessum stöðum. Í byrjun ársins 1886 eru hér að eins tveir prestar íslenzkir, síra Jón Bjarnason í Winnipeg og síra Hans Thorgrímsen í Norður-Dakota. Í Nýja Íslandi, Argyle og Minnesota voru menn prestslausir, en á öllum þessum stöðum munu þó verið hafa

söfnuðir, því öllum var þegar um það hugað að halda kristindómi og trúrækni við lýði.

Skömmu eftir komu síra Jóns hingað vestur mun það hafa borið í tal með þeim prestunum, síra Hans og honum, að söfnuðurnir íslenzku ættu að mynda allsherjar félagsskap með sér eða ganga í bandalag til að efla hver annan og styðja í viðhaldi kristindómsins. Kom þeim báðum saman um að gangast fyrir þessu. Síra Hans, sem fyrstur mun hafið hafa máls á þessu, bauð til fundar hjá sér að Mountain í Pembina County; var sá staður oftast um þetta leyti nefndur Vík með Íslendingum. Var öllum íslenzkum söfnuðum boðið að senda þangað fulltrúa og komu þeir saman þar 23. jan. 1885.

Á fund þenna sendi söfnuðurinn í Winnipeg þessa erindreka: Magnús Pálsson, Jón Björnsson, Árna Friðriksson, Pál Sigurgeirsson Bárdal og Sigurð J. Jóhannesson. En síra Jón Bjarnason mætti þar fyrir hönd safnaðarins í Argyle Sökum þess hve merkilegur fundur þessi mun ávalt þykja, setjum vér hér um leið nöfn hinna annarra fulltrúa, er þar komu saman. Fyrir hönd Íslendinga í Nýja Íslandi var þar Friðjón Friðriksson. Fyrir söfnuð við Little Salt í grend við Grafton í Norður-Dakota, Ólafur Guðmundsson. Fyrir Tungársöfnuð, Þorsteinn Jóhannesson, Björn Árnason, Björn Skagfjörð og Pálmi Hjálmarsson; fyrir Pembinasöfnuð, Sigurður Mýrdal, Stefán Eyjólfsson og Jón Jónsson; fyrir Garðarsöfnuð Eiríkur H. Bergmann, Jón Bergmann, Sigfús Bergmann, Hallgrímur Gíslason og Jósef Sigvaldason (Walter); fyrir Parksöfnuð Jón Thordarson, Jakob Líndal, Ásgeir Helgason, Jónas Hall og Kristinn Kristinnsson; fyrir Víkursöfnuð síra Hans Thorgrímsen, Haraldur Thorláksson, Friðbjörn Björnsson, Halldór Reykjalín og Jón G. Pálmason.

—Þeir, sem þektu landnámsmennina íslenzku vestan hafs

um þetta leyti, mundu allir kannast við, að hér var mannval mikið og frítt saman komið.

Á fundi þessum komu menn sér saman um að mynda íslenzkt kirkjufélag, er heita skyldi: Hið evangeliska lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi. Voru þar samþykt lög fyrir félagið, er síðan skyldu borin upp til samþykta í söfnuðunum. Samkvæmt lögum þessum var tilgangur félagsins sá, ,,að styðja að eining og samvinnu kristinna safnaða af hinni íslenzku þjóð í heimsálfu þessari, og yfir höfuð efla kristilegt trúarlíf hvarvetna þar sem það nær til". Fyrir trúarjátning þess er gjörð sú grein, að það trúi því,að ,,heilög ritning — það er: hinar kanonisku bækur gamla og nýja testamentisins, — sé guðs opinberaða orð, og hin eina sanna og áreiðanlega regla fyrir trú manna, kenning og líferni." — Það kallar sig lúterskt ,,af því það skilur grundvallarlærdóma guðs orðs samkvæmt því, sem kent er í hinum minni fræðum Lúters og skoðar þau því sem trúarjátning sína, en líka sérstaklega af því að það skoðar lærdóminn um réttlæting af trúnni á Jesúm Krist (Róm. 3. og 4. kap.), sem Lúter og samverkamenn hans lögðu aðaláherzluna á í baráttu sinni fyrir viðreisn kirkjunnar,sem grundvallar atriði kristindómsins.

,,Játningarrit lútersku kirkjunnar hefir félagið í heiðri sem mikilsverða vitnisburði um það, hvernig lærifeður þeirrar kirkjudeildar, sem hin íslenzka þjóð hefir staðið í um 300 ár, hafa skilið og kent lærdóma heilagrar ritningar og varist villukenningum. En það setur þó ekkert af þessum ritum jafnhliða heilagri ritning, sem öll kristindómskenning verður eftir að dæmast".

Um alt þetta kom fulltrúum safnaðanna að mestu leyti saman. Samt sem áður var eitt atriði í sambandi við grundvallarlögin, sem ætlaði að verða að ásteytingar-

steini, en það var, hvort hæfilegt væri að konur hefðu jafnréttl við karlmenn í safnaðar og kirkjufélágsmálum, eða með öðrum orðum, hvort kjósa mætti konur á kirkjuþing. Síra Hans og fulltrúarnir frá Víkursöfnuði héldu því fastlega fram, að þetta væri gagnstætt kenning Páls postula. En aftur var því haldið fram af ýmsum norðanmönnum, að kristnir menn mundu frjálsar hendur hafa í þeim efnum. Urðu þeir nokkuð fleiri, sem þá stefnuna aðhyltust, og greiddu 18 atkvæði með þeirri grein, er að þessu laut, en 8 á móti; tveir greiddu ekki atkvæði og einn var ekki á fundi.

Svo var ákveðlð, að þegar grundvallarlög þessi hefðu rædd verið í söfnuðunum, skyldu fnlltrúarnir skýra síra Jóni Bjarnasyni frá úrslitum, og var honum á hendur falið að kalla saman fulltrúa frá öllum þeim söfnuðum, er samþykt hefðu grundvallarlög félagsins til hins fyrsta ársfundar þess, er haldast skyldi í Winnipeg.

Fundarboðið er dagsett 24. apríl 1885 og birt í 49. tölubl. Leifs 2. árg. Skyldi fyrsti ársfundur kirkjufélagsins haldinn í Winnipeg 24. júní og næstu daga og er skorað á þá söfnuði, er enn ekki hafi gengið inn í félagið, að gjöra það hið bráðasta.

Samkvæmt fundarboði þessu komu fulltrúar saman í húsi hins íslenzka Framfarafélags á Jónsmessu—afmælisdag Jóhannesar skírara. Stóð það hús eins og kunnugt er á Jemima stræti eins og þá var kallað, en nú Elgin avenue. Var þar auk fulltrúanna allmargt fólk saman komið. Áður fundur var settur, var guðsþjónusta haldin. Við þá guðsþjónustu prédikaði síra Jón Bjarnason og hafði fyrir texta Lúk. 1, 5—17 og 57—80. Er sú ræða prentuð í Leifi 3. júlí 1885 (III, 7). Hvað mun þessi sveinn verða? spurðu menn við fæðing Jóhannesar. Hvað mun úr

þessum nýfædda kirkjulega félagsskap verða, spyrja menn nú. Það var efni ræðunnar.

,,Hvar stendur þjóðflokkur vor hér í landinu í andlegu tilliti að einum mannsaldri liðnum? Ef heill hópur manna af vorri þjóð verður þá orðinn guðlaus, ef Íslendingar hundruðum eða jafnvel þúsundum saman verða þá staddir hér sundurtættir, í andlegri og líkamlegri dreifing, eftir að lýður sá, sem nú er fullorðinn, er hniginn til moldar, kristindómslausir, trúarlausir, guðlausir, endurlausnaralausir í heiminum, í hinu jarðneska útlegðarlandi, til hvers hefði þá verið fyrir almenning að hafa flutt heiman af Íslandi? Væri þá ekki betra, að allir hefðu setið kyrrir í hinni örðugu baráttu við harðindin og við hið ófullkomna atvinnu- stjórnar- og kirkjulega frelsi heima og aldrei litið þetta auðuga frelsis og framfaraland?

,,Vér vitum, að þessi nýmyndaði kirkjufélagsskapur vor hlýtur að mæta óteljandi mótspyrnum: Fátækt almennings, fámennið í söfnuðum vorum, fámenni þjóðar vorrar yfir höfuð, sundurlyndisandinn og flokkadráttartilhneigingin, heimskan og hleypidómarnir, sjálfræðisandinn og sérgæðingsskapurinn, en um fram alt skortur á áhuga um sín sáluhjálparmál, eru sker, sem frjálsri og nýmyndaðri kirkju hlýtur að verða mjög hætt við að stranda á. Utanaðkomandi hættur eru margar og miklar, en hættur þær, sem upp munu koma í voru eigin skauti, eru enn þá fleiri.

En ef kirkjufélag vort, sem líklega er minst allra kirkjufélaga, sem enn hafa stofnuð verið í þessu landi, eða jafnvel í heiminum, vill feta í fótspor Jóhannesar skírara, þá vitum vér, að þó það vissulega verði lítið í heimsins augum, þá getur það orðið mikið í guðs augum, og að drottinn muni halda yfir því hendi sinni, og þá er oss nóg.''

Þessir smákaflar úr ræðunni, þó sundurlausir séu,

gefa nokkurn veginn glögga hugmynd um, hvað menn voru um að hugsa í sambandi við myndun kirkjufélagsins.

Að endaðri guðsþjónustu var fundur settur og frá því skýrt af forseta, að 12 söfnuðir hefðu þegar samþykt kirkjufélagslög þau, er samþykt höfðu verið á fundinum á Mountain 23. til 25. jan., og hefðu þessir söfnuðir allir sent fulltrúa. Nöfn safnaðanna og fulltrúanna eru þessi:

1. Winnipeg-söfnuður; fulltrúar: Magnús Pálsson, Páll S. Bardal, Baldvin L. Baldvinsson, Árni Friðriksson.
2. Fríkirkjusöfnuður; fulltrúar: Björn Jónsson, Friðrik Jónsson.
3. Syðri Víðirnessöfnuður; fulltrúi: Kristján Kjærnested.
4. Nyrðri Víðirnessöfnuður; fulltrúi: Jónas Stefánsson.
5. Árnessöfnuður; fulltrúi: Gísli Jónsson.
6. Breiðuvíkursöfnuður; fulltrúi: Friðjón Friðriksson.
7. Bræðrasöfnuður; fulltrúi: Benedikt Pétursson.
8. Parksöfnuður; fulltrúar: Stefán Guðmundsson, Jónas Hall.
9. Tungársöfnuður; fulltrúar: Guðmundur Björnsson, Þorsteinn Jóhannesson.
10. Austur-Sandhæðasöfnuður; fulltrúi: Gísli Jónsson.
11. Pembinasöfnuður; fulltrúi: Sigurður Mýrdal.
12. Little Salt söfnuður; fulltrúi: Ólafur Guðmundsson.

Auk þess höfðu mætt fyrir Garðarsöfnuð þeir Eiríkur H. Bergmann og Friðrik J. Bergmann og fyrir Víkursöfnuð þeir síra Hans B. Thorgrímsen, Sigurður Jósúa Björnsson og Þorlákur G. Jónsson. Hafði hvorugur sá söfnuður enn gengið inn í kirkjufélagið. Einnig var þar staddur Björn Pétursson, án þess að vera erindreki nokkurs safnaðar. Öllum þessum mönnum var málfrelsi gefið á fundinum.

Fundarstjóri var kosinn Björn Jónsson frá Argyle.

Mál, sem rædd voru á þessu fyrsta kirkjuþingi, voru þessi:

1. Sameining hinna íslenzku safnaða í eitt kirkjufélag og endurskoðan grundvallarlaganna.
2. Myndun stjórnarnefndar fyrir kirkjufélagið.
3. Stofnan sunnudagsskóla í söfnuðunum.
4. Útgáfa kirkjufélagsblaðs.
5. Kaup á guðsorðabókum.
6. Prestsmál Nýja Íslands.
7. Reglur fyrir ferming barna.
8. Helgidagahald.
9. Kirkjuagi.

Í málinu um inngöngu safnaðanna í kirkjufélagið var samþykt, að láta alls ekkert standa í grundvallarlögunum um kjörgengi eða atkvæðisrétt kvenna. Gjörðu þeir, sem þar höfðu mest í móti staðið, sig ánægða með það, þó reyndar mætti túlka ákvæði laganna í þessu efni á báða bóga, þar sem þetta var hvergi boðið eða bannað. Var þá gengið út frá því sem sjálfsögðu að þeir tveir söfnuðir, er enn ekki höfðu samþykt inngöngu í kirkjufélagið, mundu vinda að því bráðan bug, enda varð sú raun á.

Grundvallarlögunum var breytt í það horf, að þrjá embættismenn skyldi kjósa og varamenn fyrir hvern þeirra og skyldu þeir nefnast formaður og varaformaður, skrifari og varaskrifari, féhirðir og varaféhirðir. Talað var um að kjósa framkvæmdarnefnd, en ekkert varð af því og var svo til ætlast, að embættismenn félagsins hefðu nauðsynlegar framkvæmdir á hendi.

Í sunnudagsskólamálinu var sú samþykt gjörð að kjósa þriggja manna nefnd því til stuðnings, að sunnudagsskólar kæmust á í kirkjufélaginu. Líka var fulltrúunum á hendur falið að gangast fyrir því, hver í sínum söfnuði, að sunnudagsskólar komist á fót.

En þýðingarmesta samþyktin, er gjörð var á þingi þessu, var ákvörðun um að gjöra tilraun til að stofna kirkjulegt tímarit. Kirkjan íslenzka átti þá alls ekkert málgagn, eins og kunnugt er, og var þess þeim mun meiri þörf. Skyldi fyrst gefa út sýnishorn af blaði þessu; átti blaðið að verða að stærð ein örk innheft í 8 blaða broti, er út kæmi á mánuði hverjum. Þegar búið væri að gefa út sýnishhorn þetta, skyldi áskrifendum safnað.

Hin önnur mál, er á dagskrá voru, urðu að bíða næsta þings. Embættismenn voru þessir kosnir: síra Jón Bjarnason formaður, Friðjón Friðriksson skrifari og Árni Friðriksson féhirðir.

Þetta fyrsta ársþing kirkjufélagsins stóð yfir frá 24. til 27. júní, eða í fjóra daga. Hafði það farið vel fram og friðsamlega og Winnipeg-söfnuður tekið við gestunum með opnum örmum og sýnt þeim þá gestrisni og kristilegu mannúð, sem ávalt hefir síðan komið fram í sambandi við kirkjuþingin, hvar sem þau hafa haldin verið. Enda hafa þau átt drjúgan þátt í að draga dreifða hugi manna og skoðanir saman og binda menn böndum vináttu og bróðurkærleika. Menn fundu til þess þegar á þessu fyrsta kirkjuþingi og hafa ávalt fundið til þess síðan.

### 40. Einar Hjörleifsson.

Nokkuru fyrir jól veturinn 1885 kom Einar Hjörleifsson til Winnipeg. Hafði hann dvalið nokkura mánuði suður í Minneapolis, hjá skáldinu norska Kristófer Janson, sem þá var þar búsettur. Hann var þá giftur danskri konu og settust þau hjónin hér að.

Ekki hafði hann dvalið hér lengi áður mönnum varð ljóst, að koma hans hingað var gróði stórmikill fyrir andlegt líf Vestur-Íslendinga. Hann tók þegar fjörugan þátt og áhrifamikinn í samkvæmislífi Íslendinga í Winnipeg og

var óþreytandi í því að benda mönnum á ótal marga galla, sem hann sá á lífi þeirra og hugsunarhætti. Vildi það þá oft verða, að menn voru honum næsta ósamdóma og þóttu orð hans hörð og óbilgjörn. Um þessar mundir var þroskaleysið svo mikið, að menn tóku sér allar aðfinningar nærri eins og börn. Enda var það ekki að furða, því íslenzk alþýða var öllu slíku næsta óvön, þegar sú alda hófst með veruleika stefnunni í skáldskapnum.

Skömmu eftir komu sína flutti hann fyrirlestur um íslenzku skáldin í húsi Framfarafélagsins. Fremur hafði hafði hann verið illa sóttur. en svo var gengist fyrir því, að hann yrði haldinn aftur og voru þá miklu fleiri, sem á hann hlýddu. Margir gjörðu góðan róm að máli hans, en ótal öðrum þótti gagnrýni hans alveg óþolandi, þar sem gömul þjóðskáld áttu í hlut, sem fyrir löngu væru búin að öðlast viðurkenningu þjóðarinnar. Menn höfðu ekki átt slíku að venjast og voru því sem steini lostnir af þessari ofdirfsku. En þetta kendi mönnum að hugsa með dómgreind miklu meiri en áður og gleypa ekki við öllu eins og einhverju goðasvari, þótt það kæmi frá einhverjum málsmetandi manni.

Marga aðra fyrirlestra flutti hann síðar um ýms efni og var stöðugur ræðumaður á skemtisamkomum, sem þá voru næsta tíðar. Kendi hann mönnum fljótt að vanda betur til þess, sem haft væri á boðstólum við slík tækifæri en áður var títt. Enda vandaði hann sjálfur flestum mönnum betur til þess erindis, er hann flutti í hvert skifti, og talaði aldrei svo opinberlega að ekki væri bæði yndi og ávinningur á hann að hlýða. Hann var maður prýðilega máli farinn og snillingur í að lesa upp eftir aðra til skemtunar og fróðleiks. Stundum las hann líka upp sögur eftir sjálfan sig, svo sem sögu þá, er hann nefndi „Félagsskapurinn í Þorbrandsstaðahreppi“, þar

sem skorti á félagslyndi með Íslendingum bæði austan hafs og vestan er heppilega lýst. Þjóðernistilfinninguna leitaðist hann þegar við að örfa af öllum mætti, enda veitti ekki af því. Íslenzkan og hið sérkennilega í þjóðerni voru hefir sjaldan verið hér í lægra gildi en þá. Menn breyttu nöfnum sínum hrönnum saman, svo þau voru lítt þekkjanleg, og það var eins og allur fjöldinn vildi breiða sem bezt ofan á Íslendinginn.

### 41. Skemtanir.

Þar sem jafn-margt fólk er saman komið og hér var af Íslendingum, verða menn auðvitað að skemta sér með einhverju móti við og við. Lengi framan af voru það dansarnir, sem einkum höfðu aðdráttarafl fyrir unga fólkið, og naumast var unt að hafa svo nokkura almenna skemtisamkomu, að ekki væri þar dans um leið. En eftir því sem fram liðu stundir urðu þeir fleiri og fleiri, einkum með eldra fólki, sem sterkan ýmugust höfðu á þessum látlausu dönsum, þóttu þeir lítið bæta siðferði fólksins og ekki gefa því neitt um að hugsa. Það bætti líka ekki um, að um þetta leyti voru húsakynni manna þröng, en á engum stórhýsum völ, svo oft var dansað af mörgu fólki í litlum herbergjum og loftillum og gat það oft haft eins og nærri má geta skaðleg áhrif á heilsu manna. Tilfinningin fyrir brýnni nauðsyn til að sjá fólki fyrir heilnæmari skemtan en dansinum fór nú stöðugt vaxandi, enda var að henni blásið af kappi af öllum alvarlegum mönnum, er létu sér ant um siðferðislega heill og velferð landa sinna.

Við og við var meðal annars farið að stofna til leikja. Í stórblaði bæjarins ,,Free Press'' var þess getið 29. jan. 1904 að fyrir tuttugu árum hefði íslenzkur leikflokkur leikið Útilegumennina á leikhúsi bæjarins. Er það nokkurn veginn eini viðburðurinn úr lífi Íslendinga hér í

bæ, sem vert hefir þótt að geta opinberlega í innlendu blaði frá þessum árum, og hefir verið skoðað sem býsna nýstárlegt tiltæki af þeirra hálfu. Fyrir þessu hafði Jón A. Blöndal gengist og þótti takast býsna vel. Enda var þetta ekki látið niður falla, en til þess tekið með nýju fjöri nú þegar Einar Hjörleifsson var í hópinn kominn. Enda hafði hann öllum betur vit á þess konar og lag á að segja til og beina smekkvísi manna í heppilegt horf.

Veturinn 1886 gekst hann fyrir því með öðrum, að leikritið Hermannaglettur eftir danska skáldið HOSTRUP yrði leikið hér. Var það leikið nokkurum sinnum í febrúarmánuði og þótti ágæt skemtun og betur takast að leika en nokkuru sinni áður. Lék Einar Hjörleifsson þar sjálfur og ýmsir aðrir, sem góður rómur var gjörður að. Fleiri leikir voru æfðir og leiknir um veturinn, svo sem Jeppe á Fjalli eftir HOLBERG, og Heimspekingarnir. Voru leikir þessir sérlega vel sóttir og þóttu bera langt af þeim skemtunum, er menn áður höfðu átt kost á að veita sér.

Í marzmánuði komu þau fjögur félög með Íslendingum, sem einna mest kvað að, sér saman um að halda skemtisamkomu til arðs fyrir sjúkrahús bæjarins, sem þá var styrkt með almennum fjársamskotum, eins og á sér stað fram á þenna dag, og mikið gott átti af Íslendingum skilið, því þar nutu þeir skjóls og hælis, þegar heilsan bilaði, sem æði-oft vildi verða. Félögin, er fyrir samkomunni stóðu, voru þessi: Framfarafélagið, Kvenfélagið, Söngfélagið og Bindindisfélagið. Tókst samkoma þessi betur en líkar samkomur höfðu áður tekist; húsrúm var að sönnu lítið fyrir fólk svo margt, en af því skemtanin var hin bezta, sat fólkið kyrt og rólegt, þó heitt væri og þröngt. Arðurinn af samkomu þessari varð $103 og þótti það mikil upphæð. Það sást á þessu og ýmsu öðru, að

íslenzka mannfélagið í borginni var fremur að færast í aukana.

Söngfélagið, sem hér er nefnt að ofan, kallaði sig Gígju. Það hélt fyrstu opinberu samkomu sína laugardaginn 1. maí í húsi Framfarafélagsins og hafði vandað til hennar eftir beztu föngum. Sungu þeir þar báðir Einar Sæmundsson og Níels M. Lambertsen, læknir, sem þá var hingað kominn. Einar Hjörleifsson talaði þar um viðhald þjóðernis vors, Níels Lambertsen um áhrif vínsins á líkama mannsins, en Einar Sæmundsson las upp kafla af fyrirlestri sínum um heimilislífið á Íslandi. Þeir Jón Blöndal og Erlendur Gíslason léku þar ofurlítið leikrit eða samtal, sem kallað var: Sambiðlarnir á „Mivartshótellinu" og þýtt hafði verið úr ensku. Sigurður Jóhannesson flutti frumsamið kvæði, sem síðan var sungið af söngflokknum.

Frá skemtunum þessum höfum vér sagt, af því alþýðuskemtanir eru ein hin bezta skuggsjá og sannasta þeirrar siðmenningar, sem fólkið hefir náð. Þar kemur það fram, sem um er verið að hugsa, hve skamt sem menn kunna vera á leið komnir.

### 42. Sameiningin.

Eins og frá hefir verið sagt, var það ákveðið á kirkjuþingi, að gefa skyldi út sýnishorn af kirkjulegu tímariti eins snemma og kostur væri á, safna síðan áskrifendum að riti þessu og láta það svo út koma, eina örk á mánuði hverjum. Skyldi síra Jón Bjarnason hafa ritstjórn þess á hendi og átti það að skoðast sem málgagn kirkjufélagsins. Sýnishorn af blaðinu kom út í desember 1885 og var heita látið Sameiningin. Átti nafnið að tákna þá eining, sem ríkja þyrfti með öllum söfnuðum kirkjufélagsins og um leið, að í kirkjulegu tilliti ættu allir að verða

eitt. Áskrifendum býsna mörgum var safnað um veturinn og gekk það vonum greiðlegar. Efnið í þessu sýnishorni blaðsins var þetta: Hvers vegna að stofna kirkjublað?— Kristindómurinn opinberan frá guði (þýtt).— Hvernig á að haga sunnudagsskólanum.—Endurskoðaða biblíu-útleggingin enska. —,,Kenning hinna tólf postula''.— Kikjulegar nýjungar á Íslandi.—Hvað söfnuðum vorum hér vestra líður.—Lúterska kirkjan í Ameríku.—Í útgáfunefndinni voru: Baldvin L. Baldvinsson, Jón Bjarnason, Friðjón Friðriksson og til vara Páll S. Bardal.

Fyrsta tölublað ritsins kom ekki út fyrri en í marzmánuði 1886. Það var sérlega vandað að öllum frágangi, með fögru letri spánnýju á ágætum pappír. Sáu menn þá að hægt var, að láta frágang vera vandaðan á íslenzkum bókum og blöðum er hér væri gefið út og urðu því næsta fegnir, því hér var jafn-vel vandað til alls, efnisins, málsins og ytra útlits, alt í lagi miklu betra en áður hafði átt sér stað um það, er hér hafði prentað verið.

Um þessar mundir átti íslenzka kirkjan á fósturjörð vorri alls ekkert málgagn, svo naumast lét nokkur rödd tíl sín heyra um kirkjuleg efni. Trúarlífið virtist sofa svefni allþungum og ekki varð eiginlega nokkurs áhuga hjá neinum vart til að vekja af þeim svefni. Þá hefur ,,Sameiningin'' göngu sína hér vestan hafs og nefnir sig: Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vesturheimi. Fáum vér ekki betur skilið, en það muni ávalt viðurkent verða, að þetta ætlunarverk sitt hafi hún leyst ótrauðlega af hendi og góðan hlut átt að þeirri vakning til öflugra áhuga í kirkjulegum efnum, sem vart hefir orðið á fósturjörðu vorri á síðari tímum. Það leið ekki á löngu áður annað kirkjumálarit með líku sniði reis upp á Íslandi, þar sem Kirkjublaðið var, sem út kom í júlí 1891, og er

óvíst það hefði svo snemma orðið, ef Sameiningin hefði ekki verið búin að vekja hugi manna í þeim efnum. Enda var það af flestum viðurkent lengi framan af, að málsstaður kristindómsins væri þar fluttur af meira áhuga og fylgi en ætti sér stað með Íslendingum í nokkurum efnum ella. Hún var fyrst um nokkur ár eins og rödd, hrópandi í eyðimörk. En þeir voru ekki svo fáir sem heyrðu þá rödd og gengu á hljóðið.

43. ,,Leifur" hættir.

Skömmu eftir að ,,Sameiningin" fór út að koma og leggja sinn skerf til andlegrar auðlegðar Vestur-Íslendinga, hætti ,,Leifur", sem nú var orðinn þriggja ára gamall að koma út, þótt ekki stæði það að öðru leyti í neinu sambandi hvað við annað. Fjórða júní 1886 kom út 52. tölublað þriðja árgangs. Þar gjörir Helgi Jónsson þá yfirlýsing, að hann kunni að verða til þess neyddur að fresta útkomu 4. árgangs um nokkurn tíma, en gefur jafnframt í skyn, að hann hafi í hyggju að halda útgáfu blaðsins áfram. Samt eru fremur litlar líkur til, að hann hafi séð sér það fært, því þegar haustinu áður hafði hann flutt sig búferlum einar 200 mílur norðvestur í land og hafði frá þeim tíma eðlilega mjög lítið getað sint blaðinu. Enda var efnahagur hans nú fremur þröngur orðinn og allmikið ógoldið af andvirði blaðsins, eins og oft hefir viljað við brenna um íslenzk blöð.

Að líkindum hefir aldrei neitt blað út komið nokkurs staðar á bygðu bóli, sem af meiri vanefnum hafi gjört verið en ,,Leifur". Það má með sanni um hann segja, að hann var fremur af vilja en mætti. Áhöldin eins léleg og frekast mátti. Engum manni til að dreifa, sem nokkurn tíma hafði með stíl eður prentsvertu farið. Ritstjórinn sjálfur svo lítið pennafær, að hann varð að láta aðra rita

upp aftur hvert orð, er hann setti í blaðið. En til þess hafði hann ekki völ á nokkurum, sem eiginlega tilsögn hafði fengið. Sá, sem allra fyrst hjálpaði honum við að rita í blaðið var Stefán nokkur Pálsson frá Reykjavík, sem hér var um þær mundir, en síðan fluttist til Chicago og nú mun eiga heima í Minneapolis. Síðar fekk hann sér til aðstoðar ungan mann, sem meiri sjálfsmentunar hafði aflað sér en flestir aðrir Íslendingar á hans reki, er hér voru: Eggert Jóhannsson, og mun hans síðar frekar getið. Hann fór að vinna hjá Helga heitnum Jónssyni haustið 1883. Átti hann eiginlega mestan hlut að blaðinu, því hann ritaði allar fréttir og alt annað sem í blaðið fór, nema ritstjórnargreinar. Þeim vildi ritstjórinn sjálfur algjörlega ráða, en lét Eggert jafnan rita þær upp aftur, til að lagfæra ritvillur og annað smávegis. Prentarinn, Jón V. Dalmann, varð að læra alt, sem til iðnarinnar heyrði, öldungis af sjálfum sér, og var naumast við því að búast, að betur tækist, með þeim áhöldum, sem honum voru í hendur fengin.

Þó mun peningahlið fyrirtækisins vera einna merkilegust. Það leið víst ekki á löngu áður Helgi heitinn Jónsson gengi úr skugga um, að hann mundi aldrei annað hafa fjárhagslega upp úr fyrirtækinu en helberan skaðann. En þegar fjörkippurinn í viðskiftalífi bæjarins alt í einu datt niður og alt stóð fast, varð efnahagur hans þegar býsna þröngur, þótt áður sýndist hann allgóður. Hann mátti því sannarlega ekki við því, að verða fyrir neinum halla af blaðfyrirtæki sínu. En hvað um það. Hann hélt einbeittur áfram, þótt hér um bil allir aðrir mundu hafa gefist upp í hans sporum. Og hið sama var að segja um þá, sem með honum unnu að blaðinu: Eggert Jóhannsson og Jón V. Dalmann. Hvorugur þeirra mun annað hafa haft upp úr vinnu sinni en allra bráðustu lífs-

nauðsynjar. Húsbónda sinn umliðu þeir um kaup sitt og urðu svo að síðustu að gefa það upp. Meiri sjálfsafneitun er naumast unt á að benda í sambandi við íslenzka blaðamensku. Löngun þessara manna til þess að sjá Vestur-Íslendingum fyrir dagblaði var svona sterk. Enda var hún hið eina, sem hélt blaðinu við og bar það á herðum sér. Skyldi þess ávalt minst, þegar talað er um þessa fyrstu ófullkomnu tilraun til að halda út íslenzku vikublaði hér í Winnipeg.

### 44. Heimskringla byrjar.

Síðasta blað Leifs er dagsett 4. júní 1886. Löngu áður voru hreyfingar allsterkar með mönnum hér í áttina til þess að stofna nýtt blað. Einkum munu það tveir menn, sem meira hafa um það hugsað en aðrir, en það voru þeir Frímann B. Anderson og Einar Hjörleifsson. Til þess má líka nefna þriðja manninn, Eggert Jóhannsson, sem svo lengi hafði lagt krafta sína í sölurnar fyrir Leif, en jafnframt eðlilega þráð að verða einhvern tíma við blað riðinn, er betur væri úr garði gjört.

Eins og við var að búast var fjárskortur eiginlega eini þröskuldurinn, eins og oftast vill verða, þegar talað er um ný fyrirtæki með Íslendingum. Alla langaði til þess að nýju blaðfyrirtæki og fullkomnara yrði hleypt af hlunnum. En enginn hafði fé aflögu fram að leggja og nú könnuðust menn betur við en áður, að slíkt er ekki af vanefnum gjört, ef með lagi á að vera.

Um þessar mundir var Frímann Anderson svo heppinn að fá nokkurt fé í hendur frá Kanada-stjórn fyrir að þýða bækling einn, er út átti að koma á ýmsum tungumálum og hafa meðferðis ýmsar upplýsingar um ónumin lönd fyrir væntanlega innflytjendur. Var honum goldið töluvert af því fé, er hann átti að fá fyrir starf þetta

fyrirfram, til þess hann gæti þegar tekið til starfa og fengið sér nauðsynlega hjálp. Að líkindum mun þetta hafa verið hið fyrsta fé, sem hamingjan hafði honum í hendur fengið, svo að nokkuru næmi, en hann maður bláfátækur, alveg nýlega búinn að enda við skólanám sitt. Mundi þá margur í hans sporum hugsað sér að nota það algjörlega í eigin þarfir og láta það verða undirstöðu annars gróða.

En hann hugsaði meira um blaðfyrirtækið, sem hann þá bar fyrir brjósti en eigin hagsmuni Hann varði nú fé þessu til að kaupa fyrir nýja stíla og byrja nýtt blað. Sjálfum mun honum hafa hugkvæmst nafnið, sem óefað er eitt hið smellnasta blaðanafn íslenzkt, sem til er: ,,Heimskringla'', eftir hinu ódauðlega ritverki Snorra Sturlusonar, en um leið svarandi algjörlega eftir þýðing sinni til dagblaðsheitisins algenga ,,Globe'', sem frægt er orðið í blaðaheiminum enska.

Fyrsta blað Heimskringlu kom út 9. sept. 1886. Var mönnum á því orðið mál, því mikið hafði verið um það rætt, og ekkert blað íslenzkt út komið síðan í júní að Leifur hætti. Enda var nú býsna myndarlega úr garði riðið, blaðið stórt eftir íslenzkum hætti, fimm dálkar á blaðsíðu hverri, letrið þétt og fallegt, efni vel skipað niður og miklu fjölbreyttara og meiri bókmentakeimur að því, en menn höfðu áður átt að venjast hér fyrir vestan. Eigandi þess og ábyrgðarmaður var Frímann B. Anderson.

En ritstjórar voru ekki færri en þrír. Aðalritstjóri var eigandi blaðsins, Frímann Anderson, en meðritstjóra hafði hann tvo, þá Einar Hjörleifsson og Eggert Jóhannsson. Skrifstofa blaðsins og prentsmiðja var 35 og 37 King stræti, þar sem hin stóra múrsteinsbygging Gísla Ólafssonar, hveitikaupmanns, nú stendur. Sýnist það hafa spádómur verið um, að sá blettur ætti að verða Íslend-

ings eign á ókomnum árum. En nú er flestum það úr minni liðið, að þar hafði Heimskringla fyrstu byggistöð sína.

Í auglýsing sinni til almennings segja ritstjórarnir, að þeir ætlist til að blað þeirra verði helmingi stærra en nokkurt blað, sem hingað til hefir verið gefið út á íslenzku. Samt ætti verðið ekki að vera hærra en á Leifi, 2 doll. árgangurinn. Einkum og sérstaklega ætti það að vera fyrir Íslendinga í Vesturheimi. Öll þau mál, er þá varðar miklu, lofa þeir að láta sig miklu skifta, hvort sem eru stjórnmál, atvinnumál, mentamál eða önnur. ,,En þar með er alls eigi sagt, að vér viljum ganga fram hjá þeim málum, sem landa vora á Íslandi varðar sérstaklega. Einkum viljum vér taka svo mikinn þátt, sem oss er mögulegt í stjórnmálum þeirra og bókmentamálum. Yfir höfuð vildum vér stuðla að því af fremsta megni, að meiri andleg samvinna gæti komist á með löndum heima og löndum hér. Auk þess mun blaðið hafa meðferðis alment skemtandi kafla, einkum góðan skáldskap í bundnu og óbundnu máli, frumritaðan og þýddan, sem jafnt ætti að geta verið fyrir alla Íslendinga, hvar sem þeir eiga heima''.

Blaðið átti að vera algjörlega óháð öllum hérlendum pólitiskum flokkum. ,,Það hefir fult frelsi til að taka í hvert mál á þann hátt, sem ritstjórinn álítur réttast og sanngjarnast. Það mun heldur ekki ganga neinum flokkum á hönd.''

Um vesturflutninga, er þá stóðu sem hæst, var um þetta leyti eðlilega mjög mikið rætt. Gjöra því ritstjórarnir svolátandi yfirlýsing um stefnu blaðsins í þeim efnum: ,,Blaðið verður alls enginn agent fyrir Vesturheimsferðir, hvorki til Kanada né annarra ríkja Ameríku. Það talar um útflutninga af Íslandi og innflutninga hingað í land eins og önnur mál, að eins eftir sannfæringu og beztu vitund ritstjórnarinnar, en engum innblæstri ann-

arra manna. En hitt er ekki nema sjálfsagt, að það muni hafa vakandi auga á öllu því, sem opinberlega er sagt um hag og framferði Íslendinga hér og halda hlífiskildi fyrir þeim, ef þörf gjörist.“

Svo sem að sjálfsögðu er því um leið heitið, að blaðið verði eins alþýðlegt og vandað eins og frekast eru föng á. Er ritstjórnin hin vonbezta um, að fyrirtækinu verði vel tekið af öllum þorra manna, enda ættu þeir fáir að vera, sem ekki væri það í augum uppi, hvílík nauðsyn er á, að gott blað gæti komist á fót og þrifist.

Þetta er nú hið helzta úr stefnuskrá blaðsins og má nærri geta að flestum hafi vel að henni getist.

Í fyrsta blaðinu var meðal annars kvæði eitt eftir Einar Hjörleifsson. Af því sem oss finst það muni lýsa þeim tilfinningum, er höfundurinn geymdi í brjósti, er hann gekk að ritstjórastörfunum, og af því vér vitum ekki til, að það sé annars staðar prentað, setjum vér það hér:

**Það er svo margt að.**

„Það er svo margt hér, svo ótal margt að,
Þó allmargt sé betra en fyrr var það,
og margur sé maðurinn glaður,
þá vantar oss mikið—ein ósköpin—enn,
ef við eigum að verða göfugir menn,
það sér þó hver sjáandi maður.

„Það er innibyrgt líf í okkar sál,
og einskisverð okkar þrætumál,
og óhreint loft, sem vér öndum,
og hálfgildings visnun í hvers manns þrótt
og hugmyndaríkið svo fátækt og ljótt
og alt sem í einhverjum böndum.

„Hver festir á hönd þar sem frelsið er nóg?

Hver fyllir með eitri vorn dýrlega skóg?
Hver bægir því burt, er vér þráum?
Og hvers vegna' er engin vor hugsun stór
fyrst hér er í kring einn dýrðarsjór,
ef sjálfir vér heyrum og sjáum?

,,Er enginn, sem þekkir neinn óræktar damm,
sem átt hefði löngu að skerast fram,
og skvett er í skólpi á daginn?
Hann safnar þar eitri, sem enginn sér;
og á eftir mollunni lyftir það sér
og breiðir sig út yfir bæinn.

,,Og aumingja fólkið, það verður svo veikt
og veit ekki hvað hefir sýki þá kveikt,
sem þar í þorpinu gengur.
Í eitruðum kofunum um sig það býr,
og útvegar Brama-lífs-elexir,
og—eg segi ekki söguna lengur.

,,Við bjuggum áður við ófrelsis-damm,—
samt enn er ei búið að skera fram,
og alt af eitrar hann bæinn—
og við fluttum í okkur út það blóö,
sem eitrar lífið í vorri þjóð
og byrgir út blessaðan daginn.

,,Við sögðum oss komna frá kappaþjóð
og konunga sögðumst við hafa blóð,
oss færar því flestar leiðir;
og við bárum makalaust hátt okkar hatt—
og höfðum ei þrek til að tala satt,
nema fullir og fjúkandi reiðir".

Ritstjórnar greinar í fyrsta blaðinu eru um þessi efni: Eiga Íslendingar að gefa sig við hérlendri pólitík?— Verzlunarmál.-- Nýkomnar bækur. Auk þess byrjar saga Einars Hjörleifssonar, sú er fyr var getið: Félagskapurinn í Þorbrandstaðahreppi, í þessu fyrsta blaði. Þess utan stendur þar margt smávegis og mikið af fréttum. Mátti því með sönnu segja, að alt útlit væri fyrir, eftir fyrsta blaðinu að dæma, að hér hefðu Vestur-Íslendingar eignast blað, sem líklegt væri til að standa öðrum blöðum íslenzkum á sporði og leggja sinn skerf til þroska íslenzkrar blaðamensku. Enda hafði það margar góðar hugvekjur til brunns að bera.

Ekki varð samvinna ritstjóranna þriggja langæf. Að þrettán vekum liðnum fór Einar Hjörleifsson frá. Þeim gat ekki komið saman Frímanni Anderson og honum, og var þó Einar Hjörleifsson einn hinn ljúfasti maður í samvinnu, sem hægt er að óska sér. En hann lagði störf sín við blaðið þegjandi niður og hafði þó enga atvinnu aðra, er hann gæti haft von um. Aftur féll vel á með þeim Einari Hjörleifssyni og Eggerti Jóhannssyni og munu þeir ávalt bera einlæga virðingu hvor fyrir öðrum eftir þenna stutta samveru tíma. Þrettánda tölublað Heimskringlu, sem út kom 2. des. 1886, var síðasta blaðið, sem nafn Einars Hjörleifssonar stóð á. Frímann Anderson og Eggert Jóhannsson voru þá tveir eftir og mun hinn síðar nefndi hafa að langmestu leyti í blaðið ritað.

En fleiri óhöppum varð nú blaðið fyrir en þeim að missa Einar Hjörleifsson úr ritstjórninni. Viku síðar en hann fór, varð uppihald á útkomu þess. Frá 9. des. 1886 um haustið kom ekkert blað út þangað til 7. apríl um vorið 1887. Var orsökin til þess efnaskortur

Frímann Anderson gjörir grein fyrir ástæðum blaðsins í 15. tölublaði. Segir hann þar, að útgjöld þess viku-

lega fyrir kaupgjald, prentun, húsaleigu og eldivið hafi verið yfir 60 doll., en tekjur þess að jafnaði að eins 25 doll. á viku, 10 fyrir auglýsingar og 15 frá áskrifendum. Hafi kostnaðurinn fyrir þær 14 vikur, er búið var að gefa blaðið út, numið 850 doll., en tekjurnar að eins 350 doll. Mismunurinn á tekjum og útgjöldum yfir þenna stutta tíma, hafi því numið 500 doll. og hafi því eigi árennilegt verið lengra að halda út í þær ófærur. Segist hann hafa reynt að losa rig úr skuldum þessum. Hafi hann nú selt blaðið þeim Eggerti Jóhannssyni, Jóni V. Dalmann, Þorsteini Péturssyni og Eyjólfi Eyjólfssyni. Þrír hinir fyrstu höfðu unnið við blaðið síðan það fór að koma út, en hinn síðastnefndi verið ötull stuðuingsmaður fyrirtækisins- Þessir menn mynduðu félag með sér og nefndu Prentfélag Heimskringlu. Skyldu þeir verða útgefendur blaðsins þangað til Frímann Anderson gæti borgað þeim og leyst prentsmiðjuna út aftur. Skrifstofa blaðsins var flutt að 16 James stræti. Enginn sérstakur ritstjóri var tilgreindur, en það var á allra vitorði, að Eggert Jóhannsson gengdi þeim starfa.

,,Aðalverkin, sem fyrir liggja", segir Frímann Anderson, þegar hann kveður kaupendur blaðsins þessu sinni, ,,er að greiða atvinnuvegina, stofna nýlendur og viðhalda mentastofnunum. Stefnan er áfram og upp á við. Allir verða að gjöra sitt til. Vér erum reiðubúnir til að gjöra vort bezta og vonum, að Íslendingar láti ekki sitt eftir liggja, heldur sameini krafta sína til að styðja það, sem eflir framför þeirra, eykur velmegun þeirra og ávinnur þeim sóma."

Frá þessu heldur blaðið áfram út að koma viðstöðulaust til áramóta 1887. Í 52. tölublaði, sem dagsett er 22. des. 1887 er yfirlýsing frá Prentfélagi Heimskringlu um, að þeir hafi selt Frímanni Anderson eignar- og útgáfu-

rétt að blaðinu frá 27. des. og ætli hann sér að halda því út framvegis. Sé þetta samkvæmt loforði, er gefið hafi verið um að hann mætti kaupa blaðið aftur af prentfélaginu, ef houum sýndist.

Um leið birtist önnur yfirlýsing frá Frímanni sjálfum um það, að hann sé nú aftur eigandi blaðsins og ábyrgðarmaður. Segir hann að öllum sé kunnugt, hver verið hafi ritstjóri blaðsins (Eggert Jóhannsson) og hverir prentarar þess (Jón V. Dalmann og Þorsteinn Pétursson) og helzti styrktarmaður (Eyjólfur Eyjólfsson). Kunni hann þessum mönnum öllum beztu þakkir fyrir ágæta frammistöðu í þarfir blaðsins. Segist hann hafa pantað nýja stíla í íslenzku og öðrum málum í viðbót við þá, sem áður hafi til verið, og vera nú einnig í útvegum með að fá hraðpressu. Áform sitt sé, að hafa hér innan fárra daga góða og fullkomna prentsmiðju þar sem gefa má út blöð, bækur og hvað annað, ekki að eins á íslenzku, heldur og öðrum tungumálum Norðurlanda, jafnframt ensku. Verði þá þessi íslenzka prentsmiðja ein fyrsta þess konar prentsmiðja og Íslendingar hinir fyrstu af útlendum þjóðflokkum, er komið hafi þess konar mentastofnun á fót.—Svo ekki vantaði nú góðar vonir og glæsilegan ásetning.

### 45. Eggert Jóhannsson.

Það er fullkomlega þess vert, að geta hér þess manns, er um svo langan tíma var við blaðamensku riðinn með Vestur-Íslendingum.

Eggert Jóhannsson er fæddur 1. nóv. 1860 á Vindheimum í Skagafirði. Hann er sonur Jóhanns Jóhannssonar Jóhannessonar, hreppstjóra á Vindheimum, Fluttist hann til Vesturheims með föður sínum árið 1876. Nam Jóhann faðir hans land norður við Íslendingafljót og bjó þar þangað til 1881. Þá fluttist hann suður til

Dakota og nam land í grend við Hallson, þar sem svo margir Skagfirðingar tóku sér bólfestu. Kallaði hann bæ sinn að Steinstöðum, því þar hafði hann búið síðast í Skagafirði, og þar á hann heima enn, nú orðinn háaldraður maður.

Eggert, sem verið hefir 16 ára gamall þegar hann kom frá Íslandi, dvaldi í Nýja Íslandi veturinn 1886 — 7, bóluveturinn alkunna. En er vörðurinn var hafinn um vorið, flýtti hann sér að komast þaðan. Var hann hingað og þangað við ýmsa vinnu, þangað til hann settist að í Winnipeg fyrir fult og alt sumarið 1880. Þá var Leifur tekinn út að koma og var þá Stefán Pálsson helzti aðstoðarmaður Helga Jónssonar við blaðið. Eggert Jóhannsson var Helga ekkert kunnugur um þessar mundir, en Stefán Pálsson þekti hann vel. Eitt sinn kom honum til hugar um sumarið að þýða á íslenzku ofur-litla smásögu enska. Og þegar hann var búinn að því, gekk hann með hana upp á skrifstofu Leifs til að sýna kunningja sínum, Stefáni Pálssyni, hana. Þá kyntist hann Helga heitnum Jónssyni fyrst. Stefán Pálsson mun hafa alið á því við Helga eftir það, að þar væri maður, sem hann ætti að fá sér til aðstoðar við blaðið. Og varð það úr, að Eggert tók að vinna við blaðið um haustið. Ritaði hann allar fréttir, sem í það fóru, og bjó líka allar ritstjórnargreinir undir prentun. Eftir það að Helgi flutti til Churchbridge haustið 1885, ritaði hann sjálfur mjög lítið í blaðið, en fól ritstjórnina eiginlega Eggerti alveg á hendur, þótt hann léti blaðið framvegis út koma með sínu nafni.

Það atvikast svo stundum í lífinu að menn verða það, sem menn öldungis ekki ætla sér að verða. Það mun hafa verið fyrirætlunum Eggerts Jóhannssonar allfjarri að verða ritstjóri. Hann er maður hægur og stiltur og að eðlisfari algjörlega yfirlætislaus. Hann hafði skóla-

mentunar alls engrar notið, en að eins fengið tilsögn í lestri og skrift eins og námfúsir unglingar gátu öðlast á Íslandi fyrir 30 árum síðan. En hann hefir víst haft löngun miklu meiri en alment gjörist til að afla sér þekkingar, því hann lærði snemma að skrifa ágæta rithönd og var mjög sólginn í lestur góðra bóka. Þegar hingað kom til landsins, mun hann flestum jafnöldrum sínum betur hafa notað tímann til að komast vel niður í málinu og afla sér allrar þeirrar þekkingar í hérlendum efnum, er hann framast mátti. Hann vann um tíma hjá mönnum nokkurum innlendum niður hjá Selkirk, sem fengust við leirkerasmíð. Þeir voru menn prýðilega mentaðir og hjá þeim átti Eggert athvarf, hvenær sem hann vildi eftir að hann hætti að vinna hjá þeim. Þessir menn veittu honum tilsögn í ýmsum fróðleik og hjá þeim fekk hann betri þekkingargrundvöll í ensku máli, en hann annars hefði átt kost.

Þegar það nú atvikaðist svo, að hann fór að eiga við ritstörf í sambandi við íslenzkt blað, drengur að eins tvítugur, var það öldungis ekki vegna þess, að hann áliti sig til þess færan, heldur lét hann að eins tilleiðast af því ekki var á öðrum völ. Hann vissi, að Helgi Jónsson hafði ráðist í blaðfyrirtæki sitt af góðum vilja, en veikum mætti, og hefir því álitið vel gjört að hjálpa honum það sem hann mátti, úr því út í það var komið. Eitt er víst og það er, að hann leitaðist við að leysa ætlunarverk sitt eins vel af hendi og hann framast mátti, enda mundi fáum jafnöldrum hans það betur farist, þeim er ekki stóðu honum betur að vígi. Við æfinguna fór honum fram, svo að smámsaman tókst honum fyrir eftirtekt og aðgætni að rita gallalítið mál. Hvort heldur það voru fréttagreinir eða annað, sem hann ritaði, var vandvirkni þar ávalt auðsæ og samvizkusemi. Í fréttavali sýndi hann smekkvísi meiri

en margur annar og gætir þar ritstjóra hæfileikanna eigi síður en í því, sem meira virðist í spunnið.

Eggert Jóhannsson fekk miklu betur að njóta sín eftir að hann komst að Heimskringlu. Átti hann töluverðum vinsældum og hylli að fagna meðan hann hafði ritstjórn blaðsins á hendi. Bæði af þeim, er drógu taum blaðsins, og hinum, sem fremur voru andstæðingar þess, var honum oftast sagan vel borin, þegar um hann var talað. Eftir því sem hann var ritstjóri lengur, sýndi hann meiri og meiri áhuga í að ræða velferðarmál Vestur-Íslendinga, eigi síður en vaxandi dómgreind og andlegan þroska. Sum þeirra urðu að ágreiningsmálum all-miklum og verður þá ávalt undir álitum komið, hver heppilegast tekur í strenginn. En víst er um það, að mikill hluti fólks leit oftast á málin í bili líkum augum og Eggert Jóhannsson og þess vegna naut blað hans vinsælda eigi lítilla, — ef til vill eigi minni þá en nokkuru sinni síðar.

Það, sem ritstjóra gjörir vinsælan, ef til vill öðru fremur, er að hann sé góður drengur—hafi góðan mann að geyma en ekki lélegan, því hugsunarhátturinn og hjartalagið er þar einlægt að koma í ljós og skygnast gegn um orðin, beinlínis og óbeinlínis. Þar segir hver maður til sín og fær eigi dulist.

Flestum kom saman um og mun koma saman um, að þenna kost hafi Eggert Jóhannsson haft, þótt hann kunni fyrir rangsleitni tímanna, eins og meistari Jón að orði kemst, ekki ávalt hafa fengið að njóta sín sem vildi. En það á nú um margan manninn heima.

Eggert var ritstjóri Heimskringlu, þangað til í júní árið 1897. Nokkuru síðar fekk hann starfa hjá Manitoba-stjórninni á Land Titles skrifstofunni. Þykir hann leysa störf sín þar prýðilega af hendí. Að öðru leyti lifir

hann kyrrlátu lífi og afskiftalausu og er lítið sem ekkert við íslenzk félagsmál riðinn.

### 46. Íslendingar reisa kirkju.

Eftir því sem söfnuðurinn lúterski efldist, varð þörfin til að eignast kirkju brýnni og tilfinnanlegri. Hús Framfarafélagsins, sem notað var í fyrstu, var eðlilega notað fyrir alls konar samkomur; fór mönnum því fljótt að þykja það fremur óheppilegur staður og óhentugur fyrir guðsþjónustur safnaðarins. Enda var húsrúmið ekki nærri nóg, þó annað hefði eigi í vegi verið. Sunnudagsskólinn, sem byrjaður var í sept. 1884, óx býsna fljótt, svo að þröngt fór um hann að verða. Tala ungmenna, er á hann gengu, smáfjölgaði stöðugt. Fyrst voru það milli tíu og tuttugu, en að ári liðnu voru það orðnir 96 til 104, sem skólann sóttu, en á hann innritaðir 124 (des. 1885). Var nemendunum þá skift í níu flokka, og kennari fyrir hvern þeirra. Var þá við því að búast, að söfnuðinum færi að finnast til um þröngt og lítið húsrúm. Enda er þá (1885) farið að safna fé til lóðarkaupa undir væntanlega kirkju, þótt mörgum hrysi hugur við slíkum stórræðum, þar sem efnahagur manna stóð enn á næsta veikum fæti og safnaðarlíf eðlilega skamt á leið komið.

Snemma ársins 1886 réð söfnuðurinn af að kaupa lóðarblett undir kirkju. Það var á suðaustur horni Nena og McWilliam stræta. Kostaði lóðin 500 doll. og var ekki búið að safna svo miklu fé, þegar kaupin gerðust; var bletturinn 82½ fet á breidd og 110 á lengd. Árið eftir (1887) var farið að stofna til kirkjubyggingar. Á kirkjusmíðinni sjálfri var byrjað um miðjan september og var hugmyndin, að ljúka henni svo fyrir jól, sem til þess þyrfti, að húsið gæti orðið notað fyrir guðsþjónustu samkomur yfir veturinn, þótt það yrði ekki með öllu fullgjört.

Stærð hússins var 66 fet á lengd 46, fet á breidd, veggirnir 22 fet frá gólfi, en hæðin á öllu aðal-miðbiki bússins að innan á milli súlnanna, er héldu veggloftinu (galeríinu) uppi alt í kring, var 30 fet. Í fyrstu hugsuðu menn ekki til að fullgjöra kirkjuna að innan, en þegar er smíðin var nokkuð á leið komin, var það álitið heppilegast að ljúka öllu af í einu. Kirkjusmíðinni mátti heita lokið um miðjan desember og á sunnudaginn fyrir jól var kirkjan vígð.

Þessi dagur (18. des. 1887) verður ávalt einn hinn mesti merkisdagur í sögu Íslendinga í Winnipeg. Því kirkjubyggingin var hið lang-mesta stórræði, sem þeir höfðu í ráðist. Að menn skyldu hugrekki hafa til að leggja út í það sýnir, að félagskapurinn var að komast á fót býsna fastan. En það sýnir líka, hve ant mönnum var orðið um málefni kristindómsins. Enginn vegur mundi hafa til þess verið, að fá Íslendinga í Winnipeg til að leggja út í nokkurt félags-fyrirtæki, þar sem jafn-mikið fé hefði þurft að leggja í sölurnar fyrir nokkurt félagsmál annað. Enda þótti þetta stórvirki, hvar sem á það var minst með innlendum mönnum.

Kirkja þessi í Winnipeg var fyrsta íslenzka kirkjan, sem vígð var í Vesturheimi. Á Mountain var að sönnu búið að reisa kirkju, en hún var enn ekki fullgjör og þess vegna ekki vígð. Sjálf vígsluathöfnin fór fram í hádegis guðsþjónustunni. Byrjaði hún með því, að leikið var á organ það, er nýfengið var til kirkjunnar, ,,forspil'' án orða. Var það gjört af organista safnaðarins, Gísla Guðmundssyni (Goodman). Að eins tveir prestar voru viðstaddir til að taka þátt í athöfn þessari, síra Jón Barnason, forseti kirkjufélagsins, og prestur safnaðarins, og sá, er þetta ritar. Að sönnu höfðu kirkjufélaginu á þessu sumri (1887) bæzt tveir nýir prestar, auk hinna tveggja, sem fyrir voru. Annar þeirra var síra Magnús

Skaftason, sem komið hafði frá Íslandi með fjölskyldu sína seint í júlímánuði og tekið við prestsþjónustu í Nýja-Íslandi. Hinn nýi presturinn var síra Níels Steingrímur Þorláksson, sem um miðjan ágústmánuð hafði komið vestur um- haf frá Kristjaníu í Noregi í því skyni að takast prestsskap á hendur fyrir Íslendinga í Lyon og Lincoln County, Minnesota, samkvæmt köllunarbréfi, er þeir höfðu sent honum. Hafði hann tekið vígslu 21. ágúst (11. sd. e. trin.) í kirkju Víkursafnaðar að Mountain og eftir það tekið til starfa meðal safnaða sinna. En hvorugur þessara nýju presta höfðu tök á því að vera viðstaddur kirkjuvígsluna í Winnipeg, rétt fyrir jólin.

Að enduðu forspili því, er áður er nefnt, gengu prestarnir, sem við voru, ásamt fulltrúum safnaðarins þremur, þeim Árna Friðrikssyni, Sigtryggi Jónassyni og Vilhelmi Pálssyni, inn frá dyrum kirkjunnar og lásu allir upphátt byrjunina á kirkjuvígsluformi því, er fylgt var. Lásu prestarnir til skiftis biblíukafla þá, sem vanalega eru við slík tækifæri notaðir, og fluttu bænir. Vígslan sjálf var framkvæmd af síra Jóni Bjarnasyni, en vígsluorðin aftur höfð upp á ensku af hinum prestinum, vegna margra ensku-mælandi manna, er við voru staddir. Þá var sunginn sálmurinn: Ó, maður, hvar er hlífðarskjól. Að honum enduðum, flutti síra Jón Bjarnason vígsluprédikan sína og hafði hann fyrir texta 1. Mós. 28, 10—19 (Jakob í Betel).

Í kirkjuvígsluprédikan þessari sagði síra Jón Bjarnason meðal annars: ,,Menn hefir eflaust dreymt misjafnt á liðinni tíð fyrir framgangi kirkjumála vorra á þessum stöðvum. Eg á ekki við, hvað menn hefir dreymt í svefni heldur við það, sem menn hefir dreymt vakandi. Mér er nær að halda, að marga hafi á þann hátt helzt dreymt um það, að þessi lúterski söfnuður Íslendinga í Winnipeg gæti aldrei þrifist,

að öll vor barátta fyrir framtíðarlífi hans mundi verða árangurslaus, að það væri svo þungt bjarg, sem hér væri í andlegum efnum verið að bisa við að velta, að það mundi verða oss eilífur Sisyfusar-steinn, sem hlyti að velta niður eftir öllum götum jafnóðum og búið væri að koma honum rétt upp undir fjallsbrún. Og eg geng út frá því nærri því sem sjálfsögðu að suma dreymi þetta enn. En hvað sem öllum slíkum draumum líður, og hvert sem nokkurn hefir dreymt um það eða ekki, að guð væri með oss í hinni kirkjulegu baráttu vorri hér, þá geta nú allir vakandi og með opnum augum sagt: ,,Hér er guðs hús". Hinn íslenzki söfnuður og hinn íslenzki þjóðflokkur yfir höfuð í Winnipeg hefir nú fengið hús yfir sig þar sem hann getur sameiginlega átt samfundi með drotni sínum, sameiginlega notið guðlegrar sabbatshvíldar, sameiginlega virt fyrir sér sitt mesta gleðiefni—heimsins óumræðilega gleðiefni, sem forðum bar fyrir Jakob í draumi hans. Það er líkt ástatt fyrir fólki voru, sem tekur sig upp og flytur burt frá Íslandi hingað til þessa lands, heiman frá öllu kunnugu og mörgu kæru, inn í nærri því alt ókunnugt hér, eins og fyrir Jakob, þegar hann lagði fyrst á stað út í heiminn burt frá sínu æsku-aðsetri. . . . . Enginn veit hvað átt hefir fyrr en mist hefir. Það hefir eflaust sannast á Jakob, þá er hann var kominn á stað út í sinn leiðangur. En eg veit, að það hefir líka sannast á mörgum íslenzkum vesturfara, eftir að til þessa lands var komið. Hann sinti ef til vill ekki mikið kirkju sinni meðan hann var heima, því það er vitanlegt, að áhuginn fyrir kirkjumálum er næsta daufur á Íslandi. En svo hrörleg sem íslenzka kirkjan er, þrátt fyrir alt og alt, sem að henni kann að vera, þá mun þó mörgum finnast, þegar þeir eru komnir hingað að heiman í ókunnugt land, að margan dýrmætan fjársjóð hafi þó þessi lítils virta kirkja gefið þeim. Ef þeir áttu

nokkura andlega fjársjóðu í eigu sinni, þá voru þeir þó allir frá henni. Ekki var gull eða silfur að flytja með sér að heiman. Arfleifðin öll, sem nokkurs var virði, er þeir tóku með sér frá Íslandi, var frá kirkjunni. Og að kasta þeirri arfleifð frá sér, þegar hörð barátta fyrir daglegu brauði í nýjum heimi var óumflýjanlega fyrir hendi, það dugði þó ekki. Nú þurfti þó sannarlega að halda dauðahaldi í þessa andlegu arfleifð frá kirkjunni, ef hugur og dugur ætti ekki að bila. Það er þessi tilfinning, sem vissulega vakti fyrir innfluttum Íslendingum hér, þegar þeir drógu sig saman í þenna söfnuð, eins og yfir höfuð fyrir fólki voru hér vestra hvarvetna þar sem íslenzkir söfnuðir eru myndaðir. Og guði sé lof fyrir þessa tilfinning, hvar sem hún á heima, því það er henni að þakka, að guðs hús er risið hér upp hjá oss á þeim stöðvum, þar sem menn fyrir fáum árum byrjuðu sitt kirkjulíf á líkan hátt eins og Jakob, þá er hann lagði sig til hvíldar úti á víðavangi með stein í kodda stað."

Við kveldguðsþjónustuna prédikaði hinn að komni prestur og fór þá fram altarisganga um leið. Einn af fulltrúum safnaðarins, Sigtryggur Jónasson, skýrði frá fjárhag safnaðarins áður þessari kveldguðsþjónustu var lokið. Á safnaðarfulltrúafundi 18. jan. 1887 hafði hann borið þá tillögu fram, að söfnuðurinn skyldi sem allra-fyrst ráðast í að reisa sér kirkju. Hafði hann þá lofað í sínu eigin nafni og félaga síns, Friðjóns Friðrikssonar í Glenboro, styrk allríflegum, svo framarlega söfnuðurinn vildi sinna þessu. Var það í einu hljóði samþykt að ráðast í þetta og kviknaði þegar áhugi allmikill hjá almenningi fyrir fyrirtæki þessu. En ekkert verulegt var að því starfað fyrr en eftir mitt sumar. Upphaflega var svo til ætlast, að kirkjan kostaði 3000 doll. og væri veggloftalaus. En síðar kom mönnum saman, að bezt væri þegar

að gjöra húsið úr garði eins og það ætti að vera og hefði kirkjan því kostað fullgjör 4000 doll. En óhætt er að fullyrða, að kirkjan kostaði í raun og veru miklu meira, því allir reikningar voru ekki fram komnir, þegar skýrsla þessi var gefin. Höfðu fulltrúarnir tekið lán að upphæð $1500 í nafni safnaðarins gegn veðtrygging í kirkjunni og lóð hennar, er keypt hafi verið fyrir 500 doll. Öðrum 1500 doll. hafði verið skotið saman bæði af safnaðar fólkinu sjálfu, ýmsum Íslendingum í Winnipeg utan safnaðarins og nokkurum innlendum mönnum, sem styrkja vildu fyrirtækið. Voru það samkvæmt þessu 1000 doll, sem óráðstafað var af skuldinni. Vígsludaginn komu inn 250 doll., er saman var skotið við báðar guðsþjónusturnar.

Stærð kirkjunnar var eins og áður er sagt, auk forkirkju (12x18 fet). Vegghloftin gengu með hliðveggjum endilöngum og framstafni. Inn eftir kirkjugólfinu voru fjórir gangar milli bekkjanna eða kirkjusætanna. En þar sem altari er vanalega látið standa í íslenzkum kirkjum, var pallur nokkuð lægri en veggloftin til beggja hliða. Á honum stóð organið og fyrir framan það söngflokkurinn. Á öðrum palli töluvert upphækkuðum frá gólfi, fyrir neðan og framan organloftið. var prestinum ætlaður staður. En þar fyrir framan og niður við gólfið, voru grádurnar. Kirkjan var hús mjög myndarlegt, þegar inn í hana var komið. Var yfirsmiðurinn Bæring Hallgrímsson, sem síðar varð bóndi í Argyle. Öll var kirkjan úr timbri gjör, en loft og veggir að innan með steinlímshúð. Enginn turn var á henni og þótti mörgum það til vanta, enda mundi hið ytra útlit hennar við það orðið miklu veglegra. Setið gátu í henni alt að 1000 manns, þegar nóg sæti voru til fengin, en föst sæti fyrir alt að 800 manns. Mönnum taldist þá svo til,að í Winnipeg-bæ væru þá að minsta kosti hálft þriðja þúsund Íslendinga. Auðsætt

var, að gengi hávaðinn af þessu fólki til kirkju, mundi ekki veita af því húsrúmi, sem í kirkjunni var, þótt það sýndist ákaflega mikið í samanburði við húsrúm það, er söfnuðurinn hafði haft að undanförnu.

Kirkjuvígsluhátíðinni var haldið áfram á mánudagskveldið 18. des. Þá var aftur samkoma haldin í nýju kirkjunni og var þar aðal-atriðið fyrirlestur all-langur, sem fluttur var af þeim, er þetta ritar, og var efni hans: Nokkur kveld í Rómaborg fyrir átján hundruð árum. ,,Var þar lýst hinni glóandi ríkismannadýrð í hinni fornu höfuðborg heimsins, en jafnframt hinni siðferðislegu rotnan, sem allur þjóðlíkaminn rómverski var gagntekinn af hið innra, þótt alt væri fágað og skínanda á yfirborðinu. Það var í stjórnartíð Nerós keisara, að ástandið í Rómaborg var eins og því var lýst í fyrirlestrinum á 7. áratugi eftir Krists fæðing. Ástandið var himinhrópandi, eins og líka Páll postuli segir um það í síðara hluta af 1. kap. bréfs hans til Rómverja. En þegar neyðin er stærst, er náð guðs næst, og náð hins kristilega evangelíum var þá sem óðast að breiða út hið lífganda endurlausnarljós sitt í myrkraheiminum rómverska. Á dögum Nerós brauzt hin voðalega ofsókn út í Rómaborg gegn kristnum mönnum; þeir voru þá fyrir sakir trúar sinnar hálshöggnir, krossfestir, brendir upp lifandi á hryllilegasta hátt og þeim var varpað fyrir ljón og tígra, til þess að þessi villidýr rifi þá í hel. Þá fekk kristnin grátlega blóðskírn, en það sýndi sig þá líka áþreifanlega, hvílíkt himneskt afl hún hefir til þess að sigra myrkravöldin í hinum syndum hlaðna mannheimi.'' Á þenna hátt er grein gjör fyrir efni fyrirlestursins í Sameiningunni. Það komu inn 80 doll. um kveldið, í kirkjubyggingarsjóðinn þegar þessi fyrirlestur var fluttur

Winnipeg-söfnuður var nú orðinn fjölmennasti söfn-

uður kirkjufélagsins. Á undan kirkjuþingi því, er haldið var þetta sumar, taldist svo til, að í honum væri hátt á 6. hundrað sálna. Mikið meira en helmingur allra Íslendinga í bænum var samt enn fyrir utan hann. Fyrir flestum þeirra mun það ekki hafa verið fyrir neina eiginlega andlega mótspyrnu við söfnuðinn eða kirkjuna, heldur mest fyrir þá sök, að fjöldamargir bjuggust ekki við að hafa framtíðarheimili sitt í bænum. Sumir báru líka við fátækt og kinnokuðu sér við að ganga í söfnuðinn meðan þeir kendu sig ekki menn til að styrkja hann með fjárframlögum svo að um munaði. Er það misskilningur, sem lengi hefir viljað loða við.

Eins og sýnt hefir verið hér að framan, var nokkur kirkjuleg starfsemi með Íslendingum í Winnipeg nokkurn veginn jafn-gömul landnáminu við Winnpeg-vatn. En þangað hófst flutningur íslenzks fólks austan frá Ontario þegar 1875. Þeir síra Jón Bjarnason og síra Páll Þorláksson heimsóttu Íslendinga í Winnipeg öðru hvoru, prédikuðu guðs orð fyrir þeim og unnu nauðsynleg prestsverk. Meðan síra Haldór Briem dvaldi í Nýja Íslandi, prédikaði hann stöku sinnum í Winnipeg, en það var einungis eitt ár. Eftir að hann hafði verið eitt ár prestur suður í Minnesota, í bygðunum íslenzku þar, veitti hann Íslendingum í Winnipeg prestsþjónustu í þrjá manuði, en að þeim liðnum fór hann heim til Íslands. Áður hann kom til Winnipeg í það skifti, var nokkur hópur Íslendinga genginn í söfnuð. En sá söfnuður hafði úr því engan prest, þangað til síra Jón Bjarnason kom frá Íslandi sumarið 1884. Þá voru hér um bil 190 sálir í söfnuðinum. Ekkert húsnæði hafði söfnuðurinn annað en samkomuhús Framfarafélagsins, sem nú hafði enn breytt nafni og kallaðist Íslendingafélag. Sunnudagsskóli Winnipeg-safnaðar byrjaði sunnudaginn 7. sept. 1884 og

var stöðugt haldið áfram eftir það með frábærri reglusemi. ,,Hann byrjaði með 25 börnum og var enginn annar en presturinn þar kennari allra fyrst, þangað til 19. okt s. á. Þá var skólanum skift í tvo flokka og skömmu síðar í þrjá, hvern með sínum kennara. Síðan 1. sd. í marz 1886 hafa flokkar skólans verið 11. Á 3. ársfjórðungi 1887 voru 170 innrituð ungmenni í skólanum og á 4. ársfjórðungi 156.“ (Sam.)

Í nýju kirkjunni var húsrúm ágætt. Enda fekk nú söfnuðurinn og sunnudagsskólinn nýjan vöxt og viðgang, þótt það kostaði stríð mikið og kirkjuskuldin hvíldi allþungt á herðum manna fyrst framan af, eins og ekki var nein furða, þar sem efnahagur manna var þá býsna þröngur og einstaklingarnir áttu flestir eftir að eignast hús handa sjálfum sér.

# NELSON LÁVARÐUR.

EFTIR HJÖRT LEÓ.

Tuttugasta og fyrsta októbermánaðar síðastliðinn, héldu Englendingar hundrað ára minningarhátíð þess manns, sem öllum öðrum fremur hefir hafið sjóflotann enska til álits, meðal þjóða heimsins, og Evrópa á að miklu leyti að þakka það, að Napóleon Bónaparte varð ekki einvaldur yfir heiminum, eins og hann þráði.

Að sönnu hafði sjófloti Englendinga unnið mörg stórvirki áður en Napóleönsku stríðin byrjuðu. Jafnvel þegar naumast var farið að roða fyrir frægð Breta meðal stórþjóða heimsins, var það enski flotinn, sem varnaði því, að hönd harðstjórans næði að ljósta landslýð allan með þrælasvipunni, og afmá borgaralegt og trúarlegt frelsi Breta.

Það var árið 1588, að brezki flotinn vann sitt fyrsta stórvirki.

María, dóttir Hinriks áttunda Englands konungs, og fyrstu drottningar hans, Katrínar hinnar spánversku, hafði leitast við að innleiða kaþólsk trúarbrögð á Englandi, er höfðu verið úr gildi numin 1534, mestmegnis af pólitískum ástæðum.

Meðan María lifði, hafði Filippus annar Spánar-kon-

ungur, maður hennar, von um, að sér myndi takast að ná yfirráðum yfir Englandi. En er María var dáin, án þess þess að þetta kæmist í framkvæmd, átti að nota hervaldið spánverska, til að framkvæma það, sem villumannleg grimdarverk, framkvæmd í nafni trúarbragðanna, höfðu ekki komið í verk.

Her Filippusar beið albúinn á meginlandinu. En í höfninni Cadiz á Spáni, lá floti sá, er Filippus hafði um mörg ár, verið að undirbúa til norðurfarar. Var hann kallaður ,,flotinn ósigrandi'', og mátti virðast eftir tölu og stærð skipanna, að hann bæri nafn með rentu. Var það talinn hinn stærsti herfloti, er nokkuru sinni hefði á sjó komið.

Fá og smávaxin voru herskip Breta um þær mundir. En það sem Filippus hafði þó sérstaklega treyst á, var það, að trúarbragðalegur ágreiningur myndi leiða til þess, að helmingur ensku þjóðarinnar myndi veita sér að málum. Sú von brást algjörlega. Þjóðin enska skyldi það, að hvað sem trúarbrögðunum leið, var borgaralegt frelsi Breta undir því komið, að Spánverjar létu málefni þjóðarinnar afskiftalaus.

Það var ákveðið að verjast meðan kostur væri, og þjóðin var einhuga um það mál. Yfirstjórn enska flotans var fengin í hendur Effingham lávarði, en þó voru það aðrir, sérstaklega Hawkins og Sir Francis Drake, sem þjóðin treysti á sér til varnar. Því það var kunnugt, að hngaðri menn og úrræðabetri höfðu aldrei siglt á sjó.

Floti Spánverja kom, og snekkjur Englendinga mættu honum í sundinu milli Englands Frakklands. Englendingar börðust af hreysti mikilli, þar til skotfæri voru sem næst til þurðar gengin. En þá var Sidonia hertogi, er stjórnaði spánverska flotanum, búinn að missa kjarkinn. ,,Hvað á nú að gera?'' spurði hann ráðþrota. ,,Þér þurf-

ið að eins að halda áfram", svaraði einn af undirforingjum hans. En því ráði var hafnað, og leyfar spánverska flotans sigldu í norðurátt, og ætluðu suður fyrir vestan Bretland. En þá tók Ægir við stjórninni og hélt uppi vörninni fyrir frelsi Englands. Örfá skip komust suður til Spánar, flest hinna strönduðu á vesturströndum Írlands og Skotlands.

Til minningar um atburð þenna lét Elízabet drottning slá nýja peninga. Á þá var mótað: ,,Afflavit Deus, et dissipati sunt" (Guð andaði og þeir sundurdreifðust). Lýsir setning þessi, þó stutt sé, ef til vill bezt tilfinningum Englendinga um þær mundir.

Þetta var byrjun sjófrægðar Englendinga, og því finst mér, að lýsing þessa atviks sé hæfilegur formáli fyrir æfiágripi einnar hinnar glæsilegustu sjóhetju, sem heimurinn hefir séð. Sá maður er Nelson lávarður.

Horatio Nelson var fæddur 29. sept. 1768, í Burnham Thorpe í Norfolk á Englandi. Hann var hinn sjötti í röðinni af ellefu börnum. Foreldrar hans voru Edmund Nelson og kona hans.

Þegar á unga aldri vakti Horatio álit á sér fyrir hugrekki og þrautseigju, og var hann þó engan veginn hraustur líkamlega. Ýmsar smásögur hafa myndast um hann, sem sýna hugrekki hans í æsku. Eg set hér tvær af þeim til sýnis.

Þeir Horatio og bróðir hans áttu að ganga í skóla tiltölulega langan veg. Illviðri laust á, og eftir erfiðleika all-mikla sneru þeir við heimleiðis. Þegar þeir komu heim, sagði faðir þeirra: ,,Ef þið komist það alls ekki, þá er ekki meira um það, en eg vil, að þið reynið það aftur, og eg álít heiður ykkar í veði, ef þið komist ekki alla leið." Þeir fóru svo aftur á stað. Þegar skamt var á leið komið, vildi eldri bróðirinn snúa við. En Horatio

mælti á móti, og bað bróður sinn muna eftir því að heiður þeirra væri í veði. Sýnir þetta skaplyndi hans, og uppeldi að nokkuru leyti.

Hin sagan er um hann, er hann á unglingsaldri var á skipi norður í íshafi. Hann hafði gengið frá skipinu eftir ísbreiðu nokkurri. Stundu seinna var hans saknað og leit var gerð. Fanst hann þá að þrotum kominn í viðureign við bjarndýr, er sótti að honum, en honum hafði mistekist að skjóta. ,,Varstu ekki hræddur við dýrið", spurði frændi hans. ,,Hvað þýðir það að vera hræddur", svaraði drengurinn. Hvað sem hæft er í sögu þessari, sýnir hún traust það, sem Englendingar báru til þessa mikilmennis síns.

Þegar Nelson var tólf ára að aldri, bað hann frænda sinn, Suckling sjóforingja, leyfis að verða einn af hásetum hans. Bæði var það, að Nelson undi sér bezt við sjó, enda sá hann, að efnalegar ástæður foreldra sinna voru ekki góðar, og gat hann því ekki búist við að öðlast ákjósanlegan þroska í föðurgarði. Þó var það á hinn bóginn alt annað en glæsilegt að gerast sjómaður í þá daga. Skipsreglurnar voru harðar, — nærri því grimdarfullar,— og Nelson heilsutæpur á unga aldri. En vonin um að verða að manni vóg meira í huga hans en allar þær torfærur er fyrir hendi lágu. Hann var með frænda sínum á skipinu ,,Raisonnable" um nokkurn tíma, en eftir það var hann settur á skipið ,,Triumph". Það skip var sent í kaupferð til Vestur Indía-eyjanna. Lærðist Nelson sjómenska vel á þeim ferðum, og eru nokkur bréf til eftir hann frá þeim árum, er sína ásigkomulag hans um þær mundir. Árið 1773 var hann meðlimur rannsóknarferðar til norðurheimskautsins, og reyndist hann dugandi maður í öllum þeim þrautum, er þeirri ferð voru samfara.

Tuttugu ára að aldri (1778) var hann gerður skip-

stjóri á skipinu ,,Hinchinbroke". Hafði hann þá fyrir tveimur árum staðist próf í sjómannafræði. Þá var lægstu tröppunni í framfara ferli hans náð, því ,,Hinchinbroke" var eitt af smærri skipunum í enska flotanum. Hann stjórnaði herför til San Juan vígisins í Nicaragua, og sýndi þá í fyrsta sinni sína fágætu hæfileika sem foringi. Sagt er, að enginn maður væri ósérhlífnari en hann, enda lagði hann svo að sér, að hann var fluttur heim sjúkur. Næsta ár varð hann skipstjóri á herskipinu ,,Albemearle, og sigldi þá til Quebec og Nýfundnalands, auk ýmsra ferða um Eystrasalt. Frá Quebec fór hann til New York, og komst þá í kynni við Hood lávarð, sjóflotastjóra Breta í Vesturheimi, og Vilhjálm prinz, er síðar varð Vilhjálmur fjórði Englandskonungur. Um nokkur ár eftir þetta var Nelson skipstjóri á ,,Borcas", einu af skipunum tilheyrandi Vestur-Indía-flotanum. Árið 1787 fór hann heimleiðis, þá nýkvæntur, og bjó að föðurleifð sinni um fimm ára tíma. Þeim tíma varði hann til að menta sig, því honum duldist ekki að hann yrði að fullnægja því skilyrði, ef nokkuru sinni ætti að rætast fram úr fyrir honum.

Þegar stríðið við Frakkland byrjaði (1793) var Nelson gerður að skipstjóra á herskipinu ,,Agamemnon". Með því byrjar frægðarferill hans. Hann var þá 34 ára; frá þeim tíma til dauðadags var hann ,,sómi, sverð og skjöldur lands síns."

Hin fyrsta stór-orusta,er Nelson tók þátt í,var orustan við St. Vincent höfðann 1797. Þar börðust Englendingar á 15 skipum á móti 27 skipum Spánverja, og höfðu sigur. Sir John Jarvis, sem var flotaforingi Englendinga í þeim bardaga, dáðist mjög að hugrekki Nelsons, og foringjahæfileikum þeim,er hann þá sýndi, og kvað úrslitin vera að miklu leyti Nelson að þakka. Nelson var

gerður að riddara fyrir hluttöku sína í sigrinum, og var það þó lítilsvert hjá því, að frá þeim degi bar enska þjóðin meira traust til hans en nokkurs manns annars. Nú hafði hann unnið sér orðstír, og var álitinn hetja með þjóð sinni.

Áhlaupið á Santa Cruz (1797) birtir Nelson ef til vill í sannara ljósi en margt annað. ,,Eg hafði enga von um að komast þar lífs af", sagði Nelson, ,,né heldur um, að fyrirtækið hepnaðist, en heiður þjóðar minnar lá við, og eg hlaut því að takast forustuna á hendur". Hann særðist hættulega, er hann sté á land, og hlaut að snúa við. En á leiðinni til skips síns sá hann, að eitt af skipum hans var að sökkva, og skipaði þá að fara þegar og bjarga mönnunum, ef auðið væri, hverjar sem afleiðingarnar yrðu fyrir sjálfan hann. Og þegar því verki var lokið, og Nelson komst til baka til eins af skipum sínum, greip hann vinstri hendi sinni í borðstokkinn og komst upp á þilfar, og skipaði svo säralækninum að taka af sér hægri handlegginn, sem hékk máttlaus og sundurskotinn við öxl hans. ,,Það verður að gerast, og bezt að því sé aflokið undir eins", sagði Nelson. Þremur dögum seinna ritaði hann með vinstri hendinni meðmælingarbréf með einum undirforingjanna, er hann kvað verðskulda að komast í hærri stöðu. Þetta og önnur lík atvik leiddu til þess, að menn hans hlýddu honum fúslega til hvers sem var, og þjóðin dáðist jafnmikið að mannlund hans og hæfileikum.

Árið 1798 lá floti Frakka í Nílár-mynninu. Nelson sigldi þangað, og vann sigur í stórorustu þeirri, er kend er við Níl, og lengi mun í minnum höfð. Var það eitt hið fyrsta merki þess, hvort Napoleon eða Evrópa bæri sigur úr býtum. Konungur Englands mintist sigurs þessa á þinginu og kvað hann geta leitt til þess að Evrópa

stæðist árásir Frakka. Nelson var sæmdur lávarðstign og veittur £2000 lífeyrir úr ríkissjóði.

Árið 1801 var brezki flotinn undir stjórn Sir Hyde Parkers sendur til Eystrasalts til atlögu við sameinaða flota Rússlands, Svíþjóðar og Danmerkur, og var það Nelson, sem hafði mest ráð á hendi í raun og veru. Bardaginn var ákafur og kom svo, að merki var dregið upp á skipi flotaforingjans brezka, um að hætta að skjóta. Athygli Nelsons var leitt að þessu. Nelson brá sjónauka fyrir annað auga sitt og horfði vandlega. ,,Eg sé enga hættu, haldið þið áfram'', sagði hann. En Nelson var blindur á öðru auga,og var það augað, er hann horfði með gegnum sjónaukann. Þegar Nelson sá að Bretar myndu sigra, sendi hann bréf til danska krónprinzins, og bauð að veita grið, þeim er vildu, svo framarlega sem þeir gæfust upp. Leiddi þetta til vopnahlés, og síðar til friðar við Danmörk og mæltist vel fyrir, sem eðlilegt var. Nelson var gerður að markgreifa, að fengnum sigri.

Árið 1801 komst á friður við Frakkland, en hann stóð ekki lengi. Stríðið byrjaði aftur árið 1803, og Nelson var þá gerður að yfir-sjóflotastjóra Breta. Þá hélt hann frakkneska flotanum inni á höfninni í Teulon um 18 mánuði. Árið 1805 sigldi frakkneski flotinn út úr Miðjarðararhafinu, ásamt herskipum nokkurum,er Spánverjar höfðu sent til liðs við Frakka. Napóleon hafði lagt þau ráð á, að hinir þrír aðalflotar sínir skyldu sigla frá Brest, Rochefort og Teulon, á sömu stundu, mætast í Martinique, og koma svo allir í senn til baka, og ná yfirráðum yfir sundinu milli Englands og Frakklands. Flotinn lagði út frá Rochefort í janúarmánuði og beið við Martinique, þann tíma, sem ákveðinn var. Flotinn frá Brest komst ekki neitt fyrir Cornwallis, flotastjóra. Villeneuve, flotaforingi Teulon-deildar Frakka, lagði út frá Teulon, og Nel-

son elti hann á fjórtán skipum til Vestur Indía-eyjanna, en er þangað kom, saknaði Villeneuve vinar í stað, og hélt heimleiðis. Nelson hélt einnig austur yfir hafið, og kom til Gibraltar. Í júlí varð orusta milli Villeneuve's og Sir Robert Calders, og lauk svo, að hvorugur sigraði. Villeneuve sigldi suður til Cadiz, til að láta gera við skip sín. Þegar Nelson heyrði um orustu þessa, sagði hann: „Þetta var slæmt, en þið megið vera vissir um, að eg skal segja Villeneuve til syndanna.“ Í september 1805 fór Nelson frá Portsmouth í síðasta sinn. Hann sigldi skipi sínu, Victory, til enska flotans í grend við Cadiz; þá hafði Nelson 23 skip, en Villeneuve 36. Svo að segja daglega bað Nelson ensku stjórnina að senda sér meira lið. „Það dugar ekkert minna en að gjöreyða frakkneska flotanum, og það gerist ekki með litlu liði“, sagði hann. Hann lagði ráðin á, og ræddi þau við undirmenn sína, svo ljóslega og vel, að þegar sást til frakkneska flotans að morgni hins 21. október, vissi hver einasti maður, hvað honum bar að gera.

Þegar alt var undirbúið, gekk Nelson ofan í káetu sína, og ritaði stutta skýrslu um atlöguna. Síðan féll hann á kné, og ritaði eftirfylgjandi bæn: „Veiti hinn almáttugi guð, sem eg tilbið, flota mínum þýðingarmikinn og fullkominn sigur, — sigur, sem frelsi ættland mitt og gjörvalla Evrópu. Verði enginn til þess að flekka þann sigur með ómannúð eða vanrækslu, heldur séu mannúð og skyldurækni einkenni gjörvalls brezka flotans. Sjálfan mig fel eg honum á hendur, sem skapaði mig. Veiti hann mér náð til þess að rækja skyldustörf mín trúlega, og blessi hann viðleitni mína að hjálpa ættlandi mínu.“ Klukkan hálf ellefu gaf Nelson hið fræga merki: „Í dag væntir England þess að hver maður geri skyldu sína“. Bardaginn byrjaði 50 mínútum síðar, og var harður og

ákafur. Skrifari Nelsons féll dauður við hlið hans á skipinu ,,Victory'', og rétt á eftir flaug kúla milli Nelsons og Hardy skipaforingja. Stundu síðar særðist Nelson banasári. Kúla kom í vinstri öxl hans og gegn um lungun og mænuna. ,,Þar hafa þeir loksins gjört út af við mig, Hardy'', sagði Nelson, um leið og hann hné niður, ,,Eg vona ekki'', sagði Hardy. ,,Jú'', svaraði Nelson, ,,hryggurinn á mér er í sundur.''

Hann var borinn undir þiljur, og lifði við kvalir í þrjá klukkutíma. En jafnvel meðan dauðastríðið stóð yfir, spurði hann hvað eftir annað, hvernig orustan gengi. Er honum var sagt, að fimtán af skipum Frakka væru eyðilögð, breiddist sorgarský yfir andlit hans. Eru þau að eins fimtán?'' sagði hann. ,,Eg hafði vonað að þau yrðu tuttugu''. Svo skipaði hann að kasta akkerum, því óveður væri í aðsigi. Hardy kvað Collingwood flotastjóra myndi líta eftir því sem gera þyrfti. ,,Ekki meðan eg lifi'', svaraði Nelson, og gerði tilraun til að rísa á fætur. ,,Kastaðu akkerum Hardy'', sagði hann einbeittlega, og þessari síðustu skipan hans var hlýtt. ,,Kystu mig, Hardy'', sagði hann við vin sinn stuttu seinna. Svo lokaði hann augunum, ánægjubros breiddist yfir varir hans. ,,Guði sé lof, eg hefi gjört skyldu mína'', mælti hann, og voru það hans síðustu orð.

Áhrif bardagans voru algjör, og jafnvel þeir, sem vonað höfðu hins bezta, höfðu ekki dirfst að búast við svo stórfeldum sigri. Orustan við Trafalgar gjörði enda á sigurdraumum Napóleons, að svo miklu leyti, sem þeir snertu England. Átján af skipum Frakka eyðilögðust, og hin flýðu burt úr bardaganum. Þá fyrst var hægt að segja með vissu, að það yrði að áhrínsorðum: ,,Drotnaðu yfir öldunum, Bretland.''

Nelson var jarðaður með viðhöfn mikilli 9. janúar

1806. Margir minnisvarðar hafa verið reistir honum, en þess þarf ekki við. Sagan hefir reist honum varanlegan minnisvarða, sem aldrei hrinur.

Orustan við Trafalgar 1805, og orustan í Kóreu sundinu 1905, eru merkilega líkar hvor annarri í áhrifum sínum. Togo varðveitti sjálfstæði Japansmanna; Nelson barg Englandi frá yfirgangi Napóleons. Enda var Togo með þeim fyrstu, sem mintist Nelson með aðdáun og lotningu á hátíð þeirri, er haldin var nýlega til minningar um hina frægu ensku hetju.

Sorglegt er það að sönnu, að skálmöld skuli ráða lögum og lofum í heiminum. En meðan svo standa sakir eðlilegt, að þeir séu í heiðri hafðir, sem mesta hreysti sýna, þá er barist er um frægð þjóðanna, og frelsi einstaklinga. Samt er skyldurækni Nelsons, hugrekki og mannúð jafnvel enn eftirtektarverðari en hinir frábæru hæfileikar hans sem flotastjóri. Með þeim hefði hann rutt sér braut til verðskuldaðrar virðingar í hvaða stöðu sem hann hefði verið. Og þeirra vegna verðskuldar hann virðingu þá, er heimurinn sýnir hinu dána mikilmenni.

**Helztu viðburðir og mannalát meðal Íslendinga í Vesturheimi.**

---

Við vorpróf Manitoba háskólans í maímánuði 1905, tóku þessir íslenzkir námsmenn burtfararpróf:

Hannes Marínó Hannesson, með 1. einkunn betri í lögfræði.

Runólfur Fjeldsted, með 1. einkunn.

Mary Kate Anderson, með 2. einkunn.

---

Frá háskólanum í Grand Forks í Norður-Dakota útskrifaðist einn Íslendingur á þessu ári (16.júní 1905): Árni Kristjánsson frá Mountain, N. D.

---

Með septembermánuði 1905 byrjaði Magnús Magnússon kennarastarf við Gustavus Adolphus College í St. Peter, Minn. Er hann ráðinn til þess starfs af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vesturheimi. Magnús er bróðursonur meistara Eiríks Magnússonar í Cambridge á Englandi.

---

Herra Albert Jónsson í Winnipeg hefir reist stórhýsi mikið þríloftað úr steini á þessu ári (1905) og stendur sú bygging á horninu á Young St. og Sargent Ave. og er vafalaust önnur stærsta bygging þeirrar tegundar, sem Íslendingur hefir látið reisa í þessari heimsálfu. Fjórar sölubúðir eru á fyrsta gólfi, en efri loftin eru bygð fyrir íverustaði. Albert Jónsson er ættaður úr Eyjafirði (af Akureyri).

---

## MANNALÁT.

### Janúar 1905.

3. Ólafur Jónsson, smiður, til heimilis hjá Baldvin Jónssyni á Kirkjubæ við Hnausa-pósthús í Nýja Íslandi (ættaður úr Kelduhverfi), 70 ára.
5. María Rögnvaldsdóttir við Mountain, ekkja Kjartans Eiríkssonar, d. 1869 (úr Húnav.sýslu), 89 ára.
8. Hólmfríður Sigurðardóttir í ísl. nýlendunni í Minnesota, 79 ára.
10. Sveinn Eiríksson bóndi við Rat River, Man. (ættaður úr Reykhólasveit), 48 ára.
10. Sigurlaug Þorsteinsdóttir, ekkja, móðir Hannesar kaupmanns á Gimli og þeirra systkina.
14. Pétur sonur Péturs Péturssonar Jökuls í Minneota, Minn., 22 ára.
17. Sofía Bjartmarsdóttir í Winnipeg (frá Brunná í Dalasýslu), 22 ára.
21. Daníel Daníelsson á Mountain, N. D. (frá Eyði á Langanesi), 69 öra.
26. Hannes Jonsson, Benjamínssonar (frá Syðra-Lóni á Langanesströndum) til heimilis í Pembina, 59 ára.
31. Jónas sonur Jóseps bónda Skram í Geysis-bygð í Nýja Íslandi, tæplega tvítugur að aldri.

### Febrúar 1905.

3. Sigurbjörg Stefánsdóttir Gunnarssonar, kona síra Björns B. Jónssonar í Minneota, Minnesota (ættuð úr Skriðdalnum í Suður-Múlas.), 32 ára.
16. Þórunn Sigurðardóttir kona Halldórs Jónssonar í Winnipeg (frá Hellulandi í Skagafirði), 26 ára.
18. Rúnólfur Eiríksson í Winnipeg (frá Einarssteigi í Skriðdal í S.-Múlasýslu), 71 ára.
19. Vilborg Bergstone í Winnipeg, 22 ára.
20. Ingibjörg, dóttir Guðlaugs Ólafssonar, snikkara, í Winnipeg, 16 ára.
26. Tryggvi Benediktsson Péturssonar í Gardar-bygð, N.D.

MARZ 1905.

10. Jón Rafnsson í Minneota (úr Vopnafirði), 77 ára.
21. Jón Jónsson Normann hjá syni sínum Þórarinn bónda í Þingvallanýlendu (frá Syðstu Grund í Blönduhlíð í Skagafirði), 64 ára.
24. Sigfríður, kona Jóhanns Thorarensen í Selkirk (af Akureyri).
24. Pálína Sigríður Spence, gift kona í Winnipeg, 28 ára.
25. Ingibjörg, dóttir Halldórs bónda Jónssonar í Argylebygð (úr Sæmundarhlíð í Skagafirði), 23 ára.
27. Guðmundur Björnsson (frá Mýri í Ísafjarðars.), 85 ára.
Sigríður Jónsdóttir Sigurðssonar, ekkja Gunnars Gíslasonar (frá Kumlavík á Langanesi), 73 ára.

APRÍL 1905.

2. Þuríður Sigfúsdóttir kona Sigurðar Indriðasonar í Selkirk (ættuð úr Norður-Múlas.), 28 ára.
8. Minnie Goodman kona Guðmundar Goodman bónda við Poplar Park, Man., 25 ára.
10. Páll, sonur Eyjólfs Eyjólfssonar í Winnipeg (frá Dagverðargerði í Hróarstungu í N.-Múlas.), 35 ára.
11. Ragnheiður Jónsdóttir í Pembina, N.D., ekkja Hannesar Jónssonar er þar lézt 26. jan. þ. árs.
12. Valgerður Sigurgeirsdóttir Jónssonar kona síra Magnúsar J. Skaftasonar, 50 ára.
13. Guðbjörg Þorláksdóttir kona Þórðar Einarssonar bónda í Ardals-bygð í Nýja Íslandi (ættuð úr Árnessýslu), 48 ára.
16. Elin, ekkja eftir norskan mann, Ellef Guttormsson, í Edinburg, N.D. (frá Enniskoti í Húnav.s.).
24. Krisján Vigfússon bóndi við Vestfold pósthús í Man.
27. Gunnar, sonur Jóhannesar Jóhannessonar bónda í Pine Valley í Manitoba, 20 ára.
29. Magnea Margrét Þórarinsdóttir í Portage la Prairie, Man. (frá Kjarvarðsstöðum í Biskupstungum).

MAÍ 1905.

11. Kristbjörg Bjarnadóttir kona Jónatans Jónatanssonar á Gimli, 66 ára.

14. Kristján Jakobsen í Winnipeg (fæddur í Keflavík í Gullbringusýslu 1828), fyrrum verzlunarmaður, 77 ára.
16. Sigríður, dóttir Davíðs Jónssonar bónda við Gardar N.D. (frá Syðri Reykjum í Húnav.sýslu), 30 ára.
16. Pétur Egilsson í Dauphin, Man. (frá Minni-Vogum í Gullbringus.), 40 ára.
25. Jens J. Þorgeirsson í Winnipeg (úr Dalasýslu), 46 ára.
30. Jón Jónsson bóndi í Álftavatnsbygð í Man. (fluttist hingað vestur frá Rauðsey á Breiðafirði, þar sem hann lengi hafði búið stórbúi), 70 ára.
31. Sigríður Hannesdóttir til heimilis hjá tengdasyni sínum Jósef Sigvaldasyni Walter við Gardar, N.D. (var tvígift, síðari maður hennar, Hannes Jónsson, d. 1888 fluttu hingað 1874 frá Þernumýri í Húnav.s.), 62 ára.
31. Helga Finnsdóttir á Gimli, ekkja Guðmundar Bjarnasonar (og lengi bjuggu á Brekku í Barðastr.s.),) 87 ára.

Helgi Þorsteinsson bóndi í Argyle-bygð (úr Hróarstungu).

Júní 1905.

5. Einar Einarsson bóndi að Öxará í Geysis-bygð í Nýja Ísl. (ættaður úr Mjóafirði á Austurlandi), 58 ára.
5. Guðrún Jónsdóttir, Ingimundarsonar í Utah (úr Austurlandeyjum), á fertugsaldri.
18. Magnús Bjarnason í Utah (úr Austurlandeyjum), 90 ára.

Júlí 1805.

4. Björg Guðlaugsdóttir í Grunnavatns-bygð, Manitoba, ekkja Guðm Guðmundssonar (bjuggu síðast í Öxney á Breiðafirði), 81 ára.
4. Guðmundur Guðmundsson á Framnesi í Nýja Íslandi, 37 ára.
10. Sigurbjörg Sigurbjörnsdóttir kona Th. Thórðarsonar læknis í Minneota (ættuð úr Vopnafirði), 28 ára.
15. Nikulás Guðmundsson í Winnipeg (af Suðurl.), 47 ára.
17. Bjarni, sonur Eiríks bónda Bjarnasonar í Þingvallanýlendu (af Seyðisfirði), 17 ára.
20. Halldór F. Reykjalín bóndi við Mountain (sonur Friðriks prófasts Jónssonar sem var á Brandsstöðum í Barðastrandars.), á níræðisaldri.

## Ágúst 1905.

11. Guðlaug kona Jóns Ólafssonar Johnson í Glenboro, Man., (ættuð úr Þingeyjarsýslu), 19 ára.
12. Sigurbjörn Jónsson í Winnipeg (úr Þistilfirði), 54 ára.
12 Guðmunda Halldórsdóttir kona Sigurðar G. Magnússonar í Winuipeg, ung kona.
15. Benedikt Bjarnason í Breiðuvík í Nýja Ísl. 22 ára.
17. Pétur, sonur Jóns Jónssonar Breiðfjörðs bónda í Norður-Dakota, 18 ára.
18. Sigríður Þorbergsdóttir kona Þorleifs Jónssonar frá Reykjum á Reykjaströnd í Skagafirði, nú til heimilis í Lögbergsnýlendunui, 71 ára gömul.
19. Guðlaug Jónsdóttir, ekkja, til heimilis í Glenboro (úr Húnavatnssýslu) 82 ára.
21. Jónína Eggertsdóttir, kona Jósefs Schram í Winnipeg (af Sauðárkróki), 46 ára.
23. Björg Jónsdóttir kona síra Einars Vigfússonar í í Winnipeg (síðast prestur að Desjarmýri), 53 ára.
31. Árni, sonur Runólfs Eiríksonar er lézt í Winnipeg 18. febr. þ. árs, 27 ára.
31. Björg Sæmundsdóttir í Winnipeg, gift kona, 37 ára.

## September 1905.

6. Kristín, kona Jóhannesar Jónssonar Færeyings bónda við Manitoba-vatn, hún var dóttir Sölva heit. Helgasonar, sem oft er á minst.
10. Jóhann Frímann, sonur Guðmundar Guðmundssonar í Duluth, Minn, 26 ára.
16. Sigfús Jónsson bóndi við Framnes pósthús í Nýja Íslandi (frá Refsmýri í N.-Múlas.), 53 ára.
18. Aðalbjörg Jónsdóttir kona Guðmundar Sigurðssonar í Garðar-bygð (frá Skálum á Langanesi), 81 ára.
20. Jóhanna Stefánsdóttir kona Ófeigs Gunnlaugssonar, trésmiðs í Norður-Dakota
27. Helga Jónsdóttir í Spanish Fork, Utah (ekkja og fyrsta kona Þórðar Diðrikssonar, mormóna-prests, fluttu til Utah 1850), 93 ára gömul.
28. Jörundur Ólafsson (af Álftanesi), á fimtugsaldri.

30. Sigurbjörg, dóttir Davíðs Jónssonar í Gardar-bygð, N.D. (úr Húnav.s.), 40 ára

Október 1905.

1. Björn Jónsson, real stúdent, í Winnipegosis (frá Víðirhóli á Hólsfjöllum) 36 ára.
3. Árni Jónsson í Ballard á Kyrrahafsströndinni (frá Þorlákshöfn í Árnessýslu), 44 ára.
3. Jón Vigfusson í W.peg (frá Búlandi í Skaftaf.s.), 27ára
5. Guðmundur Árnason í Selkirk (ættaður úr Borgarfirði í N.-Múlasýslu), 45 ára.
13. Ólafur Gabríelsson í Winnipeg (úr N.-Múlas.), 86 ára.
13. Jón Sveinsson bóndi í Geysis-bygð í Nýja Íslandi (bróðir Benedikts sál. Sveinssonar sýslum.), 71 ára.
16. Hólmfríður Helgadóttir í Winnipeg, 22 ára
29. Björg Jósefsdóttir kona Björns Klemenssonar í Winnipeg (af Skagaströnd), 36 ára.

Sigurbjörn Arnason bóndi í Argyle-bygð í Manitoba.
Jón Jónsson bóndi við Otto pósthús í Manitóba.

Nóvember 1905.

11. Benedikt Ágúst Ólafsson í Winnipeg, 27 ára.
17. Stefán Kristinn Ólafur Kristinsson í Calgary, sonur Kristins Kristinssonar við Markerville pósthús í Alberta, 22 ára.
29. Rakel Guðmundsdóttir í W.peg (af Seyðisfirði), 27 ára.
22. Valgerður Jónsdóttir, ekkja eftir Ólaf Sigurðsson, dáinn í Winnipeg fyrir nokkrum árum, 44 ára gömul.

# INNIHALD.